# Handbók




9352707
1. útgáfa






Birgðir á tilteknum vörum geta verið breytilegar eftir svæðum. Vinsamlegast kannaðu málið hjá næsta söluaðila Nokia.

# Fljótvirkt og auðvelt

Til hamingju með nýja Nokia-símann! Á þessum síðum eru ábendingar um notkun símans. Nánari umfjöllun er í handbókinni.

## Hringt í fyrsta sinn

Áður en hringt er í fyrsta sinn skal fletta upp í Hafist handa á bls. 22 til að fá upplýsingar um hvernig á að

- setja inn SIM-kort,
- setja rafhlöðuna á og hlaða hana,
- kveikja á símanum.

1. Valið er svæðis- og símanúmer og stutt á .
2. Stutt er á  til að rjúfa sambandið.

## Hringiaðgerðir

**Hringt**

Valið er svæðis- og símanúmer og stutt á .

**Hringingu svarað**

Stutt er á .

**Slíta / Símtali ekki svarað**

Stutt er á .

**Hljóðstyrkur heyrnartóls stilltur**

Stutt er á hljóðstillinn á hlið símans.

**Hringt aftur í númer sem síðast var valið**

Stutt er á  í biðham til að birta lista yfir númerin sem síðast var hringt í. Skrunað er með  eða  að viðeigandi númeri og stutt á .

**Hringt í talhólf**

Stutt er á  og honum haldið niðri. Ef beðið er um númer talhólfs er það valið og stutt á **Í lagi**.

**Hringt með raddmerki**

Fyrst þarf að bæta raddmerki við númer, sjá Raddstýrt val á bls. 41. Síðan er stutt á **Nöfn**, honum haldið niðri og raddmerkið gefið til að hringja.

## Aðgerðir í símaskrá

**Hraðvistun**

Símanúmerið er valið og stutt á **Valkostir**. Valið er *Vista*, nafnið ritað og stutt á **Í lagi**.

**Hraðleit**

Í biðham er stutt á , fyrsti stafurinn í nafninu ritaður og skrunað með  eða  að viðeigandi nafni.

## Farið í valmyndir

**Farið í valmynd**

Stutt er á **Valmynd**, skrunað með eða að viðeigandi valmyndaraðgerð og stutt á **Velja**.

**Farið úr valmynd**

Stutt er á til að fara úr valmyndaraðgerð án þess að breyta stillingum hennar og fara aftur í biðham.

## Aðrar mikilvægar aðgerðir

**Læsa / Opna takka**

Stutt er á **Valmynd**, síðan (innan tveggja sekúndna). Stutt er á **Úr lás**, síðan .

**Hraðlokun**

Stutt er á til að hætta í aðgerð og fara aftur í biðham.

# Efnisyfirlit

# Öryggisatriði





Notandi lesi þessar einföldu leiðbeiningar. Brot á reglum kann að vera háskalegt eða ólöglegt. Nánari upplýsingar er að finna í handbókinni.



UMFERÐARÖRYGGI GENGUR FYRIR
Ekki má nota farsíma við akstur. Fyrst á að leggja ökutækinu.



TRUFLUN
Allir þráðlausir símar geta orðið fyrir truflunum sem hafa áhrif á notagildi þeirra.



SLÖKKT SKAL Á SÍMANUM Í NÁGRENNI SJÚKRASTOFNANA
Fylgja ber öllum settum reglum. Slökkva skal á símanum nálægt lækningabúnaði.



HAFA SKAL SLÖKKT Á SÍMANUM Í FLUGVÉLUM
Þráðlausir símar geta valdið truflunum. Notkun þeirra er bönnuð um borð í flugvélum.



SLÖKKT SKAL Á SÍMANUM ÁÐUR EN ELDSNEYTI ER TEKIÐ
Ekki má nota símann nærri eldsneytisdælu. Notist ekki í námunda við eldsneyti eða sterk efni.



SLÖKKVA SKAL Á SÍMANUM NÆRRI SPRENGINGU
Ekki má nota símann þar sem verið er að sprengja. Virða skal takmarkanir og fara að settum reglum.



NOTIST AF SKYNSEMI
Notist aðeins í heðbundinni stöðu (við eyrað). Forðast skal óþarfa snertingu við loftnetið.



**NÝTA SKAL ÞAR TIL BÆRA ÞJÓNUSTU**
Uppsetningu og viðgerðir á búnaðinum skal aðeins fela þar til bærri þjónustu og hæfu starfsfólki.



**FYLGIHLUTIR OG RAFHLÖÐUR**
Aðeins má nota samþykkta fylgihluti og rafhlöður. Ekki má tengja saman ósamhæf tæki.



**TENGING VIÐ ÖNNUR TÆKI**
Þegar tengst er öðru tæki skal lesa notendahandbók með því vandlega, einkum upplýsingar um öryggi. Ekki má tengja saman ósamhæf tæki. Brýnt er að búa til öryggisafrit af öllum mikilvægum gögnum.



**ÞEGAR HRINGT ER**
Tryggja skal að kveikt sé á símanum og að hann sé virkur. Símanúmerið ásamt svæðisnúmeri er fært inn og síðan er stutt á . Símtali er lokið með því að styðja á . Svarað er í símann með því að styðja á .



**NEYÐARHRINGINGAR**
Tryggja skal að kveikt sé á símanum og hann sé virkur. Stutt er á eins oft og þörf krefur (til dæmis til að slíta símtali eða hætta í valmynd o.s.frv.) til að hreinsa skjáinn. Neyðarnúmerið er valið og síðan er stutt á . Staðarákvörðun er gefin upp. Ekki má slíta símtali fyrr en að fengnum fyrirmælum þess efnis.



**RÁÐSTAFANIR VEGNA INNRAUÐRA EIGINLEIKA**
Ekki má beina innrauðum geisla að augum eða láta hann trufla önnur innrauð tæki.

# Almennar upplýsingar

Í þessum kafla eru almennar upplýsingar um Nokia-símann og þessa handbók.

## Límmiðar í kassanum

Á límmiðunum eru mikilvægar upplýsingar um þjónustu við viðskiptavini.

Límmiði [B] er límdur á bls. 2 í handbókinni.

Límmiðinn með textanum ITEM og IMEI er límdur á boðskort í Nokia-klúbbinn sem fylgir pakkanum.

## Öryggisnúmer

Stilling framleiðanda á öryggisnúmerinu er 12345. Hægt er að koma í veg fyrir að síminn sé notaður í leyfisleysi með því að breyta númerinu í valmyndinni *Stillingar*, sjá Öryggisstig (valmynd 4-6-5) á bls. 81 og Breyta aðgangslyklum (valmynd 4-6-6) á bls. 81. Nýja kótanum er haldið leyndum og á öruggum stað en þó ekki með símanum.

## Sérþjónusta

Þráðlausi síminn sem lýst er í handbókinni er samþykktur til notkunar á EGSM900- og GSM1800-netum.

Bent er á að tveggja banda virkni er aðgerð sem háð er kerfi. Leita skal til þjónustuveitu ef áskrift að tveggja banda virkni er í boði og hægt er að nota hana.

Nokkrir eiginleikanna sem lýst er í handbókinni eru kallaðir símkerfisþjónusta. Um er að ræða sérstaka þjónustu sem þjónustuveitur á sviði þráðlausra fjarskipta láta í té. Slíka þjónustu er aðeins hægt að nýta sér að fenginni áskrift að slíkri þjónustu hjá þjónustuveitu á staðnum sem einnig veitir upplýsingar um notkun hennar.

## Fylgihlutir

Í símann er hægt að fá eftirtaldar endurhlaðanlegar rafhlöður sem framleiðandi hefur samþykkt: Li-Ion-rafhlöður BLS-2N og BLS-4, NiMH-rafhlöður BMS-2S og BMS-2V og Li-Polymer-rafhlöðu BPS-1.

Þetta tæki er ætlað til notkunar þegar það er hlaðið raforku frá hleðslutækjunum ACP-7, ACP-8, ACP-9 og LCH-9. Önnur notkun ógildir samþykki sem þetta tæki hefur hlotið og kann að vera hættuleg.



**Viðvörun!** Aðeins skal nota rafhlöður, hleðslutæki og fylgihluti sem framleiðandi símans hefur samþykkt til nota með tiltekinni tegund síma. Ef notaðar eru aðrar gerðir fellur niður öll ábyrgð og samþykki sem fylgir símanum, og slíkri notkun getur fylgt hætta.

Seljandi símans veitir upplýsingar um fáanlega fylgihluti sem samþykktir eru til notkunar með símanum.

Þegar fylgihlutur er tekinn úr sambandi skal taka í klóna, ekki leiðsluna, og kippa henni út.

## Prentháttur í þessari handbók

Textinn sem birtist á skjá símans er ritaður með skáletri, til dæmis *Hringir*.

Skjátexti sem tengist valtökkunum er feitletraður, til dæmis **Svara**. Texti sem vísar til valtakka birtist án tákna í textanum.

Í handbókinni er allt takkaval táknað með teiknum, til dæmis og .

# 1. Síminn

Á símanum eru takkarnir sem sýndir eru hér á eftir.






**Rofi:** Kveikir og slekkur á símanum. Ef stutt er snöggvast á þennan takka þegar verið er í biðstöðu eða símtali birtist listi yfir snið. Ef stutt er snöggvast á rofann þegar verið er í símaskránni eða valmyndunum kviknar ljós á skjánum í 15 sekúndur.




**Valtakkar:** Hver þessara takka framkvæmir þá aðgerð sem gefin er til kynna í textanum á skjánum fyrir ofan, t.d. **Velja** eða **Í lagi**.




**Skruntakkar:** Skrunað er með þessum tökkum til að leita að nöfnum, símanúmerum,
valmyndum eða valkostum fyrir stillingar.



Velur símanúmer og svarar hringingu. Í biðham: sýnir númer sem nýlega hafa verið valin.

1. Rofi
2. Innrautt (IR) tengi
3. Styrkstilling
4. Tengingar fyrir önnur tæki

 Slítur eða svarar ekki símtali. Stöðvar einnig hvaða aðgerð sem er hvenær sem er.

  Tölur og stafir færð inn. 1 hringir í talhólfið þegar stutt er á takkann og honum haldið niðri.

  Notaður í mismunandi tilgangi í ólíkum aðgerðum.

**Styrkstilling:** Efri takkinn hækkar og neðri takkinn lækkar hljóðstyrkinn í heyrnartólinu.

## Skjávísar

Með skjávísum og teiknum fást upplýsingar um aðgerðir í símanum.

### Biðhamur

Vísarnir, sem lýst er hér á eftir, sjást þegar síminn er tilbúinn til notkunar og notandi hefur ekki fært inn neina stafi. Þessi skjámynd kallast biðhamur.




**XXXXXXX**

Gefur til kynna í hvaða farsímakerfi verið er að nota símann.

 Sýnir sendistyrk farsímakerfisins á viðkomandi stað. Því fleiri strik, þeim mun meiri sendistyrkur.

 Sýnir hleðslu rafhlöðunnar. Því fleiri strik, þeim mun meiri hleðsla.

## Listi yfir mikilvæga vísa í biðham

Auk vísanna þriggja sem nefndir eru hér á undan getur eitt eða fleiri eftirfarandi teikna birst þegar síminn er í biðham:

 Gefur til kynna að ein eða fleiri texta- og myndboð hafa borist. Sjá Skilaboð (valmynd 1) á bls. 56.

 Gefur til kynna að raddboð hafa verið móttekin einu sinni eða oftar. Sjá Skilaboð (valmynd 1) á bls. 56.

 Gefur til kynna að hringing heyrist ekki þegar hringt er í símann. Sjá Sérsnið (valmynd 3) á bls. 70.

 Gefur til kynna að takkarnir á símanum eru læstir. Sjá Takkalás (Takkavörður) á bls. 20.

 Gefur til kynna að vekjaraklukkan hafi verið stillt á *Virk* .
Sjá Vekjaraklukka (valmynd 4-1) á bls. 73.

 Gefur til kynna að stillt er á símtalsflutning. Sjá Flutningar (valmynd 5) á bls. 82.

 Gefur til kynna að símtöl takmarkast við lokaðan notendahóp (sérþjónustu). Sjá Lokaður notendahópur (valmynd 4-6-4) á bls. 80.

### Valtakkarnir

Fyrir neðan skjáinn eru valtakkarnir tveir:




Hlutverk þessara takka er háð leiðbeiningunum á skjánum. Þegar til dæmis textinn **Valmynd** birtist ofan við takkann og stutt er á hann, birtast valmyndaraðgerðirnar.

Ef stutt er á takkann fyrir neðan textann **Nöfn** birtast aðgerðir símaskrár. Ef stutt er á takkann **Nöfn** og honum haldið niðri verður raddstýrt val virkt.

Í handbókinni eru valtakkarnir gefnir til kynna með því að viðeigandi leiðbeiningar eru feitletraðar.

## Takkalás (Takkavörður)

Þessi aðgerð læsir tökkunum svo að ekki verði stutt á þá í ógáti (til dæmis þegar síminn er geymdur í vasa eða veski).

 

## Tökkunum læst:

Í biðham er stutt á **Valmynd** og síðan á innan tveggja sekúndna.

Þegar takkarnir eru læstir birtist efst á skjánum.




## Takkarnir opnaðir:

Stutt er á **Úr lás** og síðan .

## Þegar kveikt er á takkaverðinum:

Stutt er á til að svara hringingu. Stutt er á til að slíta eða svara ekki símtali. Hægt er að nota aðgerðir símans á venjulegan hátt í símtali.



**Til athugunar:** Þegar kveikt er á takkaverði er eftir sem áður hægt að hringja í neyðarnúmerið sem síminn er stilltur á (t.d. 112 eða annað opinbert neyðarnúmer).

Neyðarnúmerið er valið og stutt á . Númerið birtist ekki fyrr en síðasti stafurinn í númerinu hefur verið valinn.

# 2. Hafist handa

## SIM-kort sett í

- Öll SIM-örkort skal geyma þar sem lítil börn ná ekki til.
- SIM-kort og snertisvæði þess geta auðveldlega skemmst ef kortið rispast eða bognar. Það þarf því að meðhöndla kortið af varkárni þegar það er sett í símann eða fjarlægt.
- Áður en SIM-kort er sett í símann þarf að gæta þess að slökkva fyrst á símanum og fjarlægja síðan rafhlöðuna.

1. Bakhlið símans er snúið upp og stutt á lausnarhnappinn (1.). Rafhlöðunni er rennt af símanum (2.).




2. Losað er um festingu SIM-kortsins með því að renna henni til hægri.



3. SIM-kortið er sett inn og þess gætt að skáhornið vísi niður til hægri og að gyllta snertisvæðið snúi niður.



4. Kortafestingunni er rennt til vinstri til að festa kortið á sínum stað.



5. Rafhlöðunni er komið fyrir aftan á símanum og rennt upp eftir honum þar til hún er föst á sínum stað.



## Hleðsla

1. Snúrunni úr hleðslutækinu er stungið í samband neðst á símanum.



2. Hleðslutækið er tengt við rafmagn. Hleðsluvísirinn fer á hreyfingu.

   

   Textinn *Rafhlaða hleður sig* birtist snöggvast ef kveikt er á símanum. Óhætt er að nota símann meðan verið er að hlaða hann.

   Ef rafhlaðan er alveg tóm geta liðið nokkrar mínútur þar til hleðsluvísirinn birtist á skjánum eða hægt er að hringja.

   Hleðslutíminn fer eftir hleðslutækinu og rafhlöðunni. Það tekur til dæmis um 4 klukkustundir að hlaða BLS-2 rafhlöðu.

3. Rafhlaðan er fullhlaðin þegar hleðsluvísirinn stöðvast og textinn *Rafhlaða fullhlaðin* birtist snöggvast (ef kveikt er á símanum).

4. Hleðslutækið er fyrst tekið úr sambandi og síðan úr símanum.

Ef textinn *Hleður sig ekki* birtist hefur hleðsla stöðvast. Þá skal hinkra andartak, taka hleðslutækið úr sambandi, stinga því aftur í samband og reyna á ný. Hafa skal samband við söluaðila ef enn er ekki hægt að hlaða.

Nánari upplýsingar eru í Upplýsingar um rafhlöðu á bls. 104.

 

## Kveikt og slökkt á símanum

Takkanum [power key] er haldið niðri andartak.



### Ef krafist er PIN-númers:

PIN-númerið fylgir yfirleitt SIM-kortinu.

- PIN-númerið er valið (birtist sem ****) og stutt á **Í lagi**.

  Sjá einnig Aðgangsnúmer á bls. 102.

### Ef krafist er öryggisnúmers:

- Öryggisnúmerið er valið (birtist sem *****) og stutt á **Í lagi**.

  Sjá einnig Aðgangsnúmer á bls. 102.



**Viðvörun!** Ekki má kveikja á símanum þar sem notkun þráðlausra síma er bönnuð eða þar sem hún kann að valda truflunum eða hættu.

 




**Til athugunar:** Innbyggt loftnet er í símanum. Forðast skal óþarfa snertingu við loftnetið þegar kveikt er á símanum og gildir það einnig um öll önnur tæki sem senda frá sér útvarpsbylgjur. Snerting við loftnetið hefur áhrif á móttökuskilyrði og getur valdið því að síminn noti meiri sendiorku en nauðsynlegt er. Loftnetið og síminn vinna best ef ekki er snert á loftnetinu meðan á símtali stendur.

# 3. Hringiaðgerðir



## Hringt og svarað

### Hringt

1. Svæðis- og símanúmer er valið.

   Ef breyta á númeri á skjánum er stutt á til að færa bendilinn til hægri og til að færa hann til vinstri. Stutt er á **Hreinsa** til að eyða staf vinstra megin við bendilinn.

2. Stutt er á til að hringja í númerið.
3. Stutt er á til að slíta samtalinu (eða hætta við hringinguna).

**Venjuleg staða:** Haldið er á símanum eins og öðrum símum.

**Til athugunar:** Þegar síminn er notaður með bílbúnaðinum CARK-91 er hægt að breyta úr handfrjálsri stillingu yfir í einkastillingu og taka upp aukatólið HSU-1. Ef aftur á að skipta yfir í handfrjálsa stillingu er stutt á **Valkostir** og aukatólið lagt niður innan 15 sekúndna.

### Símtöl til útlanda

1. Stutt er tvisvar á fyrir forval til útlanda (+ merkið kemur í stað forvals til útlanda).
2. Landsnúmerið er valið, svæðisnúmerið að undanskildu 0 og símanúmerið.
3. Stutt er á til að hringja í númerið.

## Hringt úr símaskrá

1. Stutt er á **Nöfn**.
2. Stutt er á **Velja** þegar *Leita* er auðkennt.
3. Valinn er fyrsti stafurinn í nafninu og stutt á **Leita**.
4. Nota skal og til að finna nafnið sem leitað er að.
5. Stutt er á .

### Síðasta númer endurvalið

Síðustu tíu símanúmer sem hringt var í eða reynt var að hringja í eru geymd í minni símans. Númerin sem síðast var hringt í endurvalin:

1. Stutt er einu sinni á í biðham til að birta lista yfir númerin sem síðast var hringt í.
2. Nota skal eða til að finna viðeigandi númer eða nafn.

### Hringt í talhólf

1. Stutt er á og takkanum haldið niðri í biðham.
2. Ef beðið er um númer talhólfs er það valið og stutt á **Í lagi**. Þjónustuveita lætur þetta númer í té. Sjá Númer talhólfs (valmynd 4-5-3) á bls. 79 ef breyta á þessu númeri síðar.

### Símanúmer hraðvalið

Ef hraðvalstakka ( til ) hefur verið úthlutað símanúmeri er hægt að hringja í það númer á einhvern eftirtalin hátt:

- Stutt er á samsvarandi hraðvalstakka og síðan á .
- Ef aðgerðin *Hraðval* er stillt á *Virkt*: Stutt er á samsvarandi hraðvalstakka ( til ) og honum haldið niðri þar til hringir.

  Sjá Hraðvalstakka úthlutað símanúmeri á bls. 44 og Hraðval (valmynd 4-3-3) á bls. 75.

**Til athugunar:** Hringt er í talhólfsnúmerið með því að styðja á og halda honum niðri.

## Hringingu svarað

1. Stutt er á til að svara hringingu.
2. Stutt er á til að rjúfa sambandið.



**Ábending:** Ef ekki á að svara hringingu er stutt á . Ef aðgerðin *Flytja þegar síminn er á tali* er stillt á símtalsflutning, til dæmis í talhólfið, verður símtal einnig flutt ef því er ekki svarað. Sjá Flutningar (valmynd 5) á bls. 82.

## Valkostir meðan á símtali stendur

Í símanum eru nokkrar aðgerðir sem hægt er að nota meðan á símtali stendur. Margir þessara valkosta eru sérþjónusta.

Með því að styðja á **Valkostir** meðan á símtali stendur er hægt að nota nokkra eða alla eftirtalda valkosti:

- *Símtal í bið* eða *Úr bið* (til að setja símtal í bið eða svara biðhringingu)
- *Ný hringing* (til að hringja þegar verið er að tala í símann)
- *Senda DTMF* (til að senda DTMF-tónstrengi sem geymdir eru í símaskránni, til dæmis lykilorð eða númer bankareiknings)
- *Slíta öllum* (til að ljúka öllum símtölum)
- *Símaskrá* (til að birta símaskrána)
- *Valmynd* (til að birta valmyndina)
- *Hljóðnemi af* (til að gera hljóðnema símans óvirkan)
- *Víxla* (til að fara á milli virks símtals og biðsímtals)
- *Flytja símtal* (til að tengja biðsímtal og virkt símtal og aftengjast sjálfur)

## Símtal í bið

Þessi sérþjónusta gerir kleift að svara hringingu þótt verið sé að tala í símann ef valmyndaraðgerðin *Biðþjónusta fyrir símtöl* er virk (valmynd 4-3-4).

1. Stutt er á **Svara** eða . Fyrsta símtalið er sett í bið.
2. Ef skipta á úr einu símtali yfir í annað er stutt á **Víxla** eða .
3. Ef ljúka á virku símtali er stutt á  (ef ljúka á báðum símtölum samtímis er stutt á **Valkostir**, skrunað að *Slíta öllum* og stutt á **Í lagi**.)



**Ábending:** Ef ekki á að svara hringingu er hægt að hunsa hana eða svara henni ekki. Ef ekki á að svara hringingu er stutt á **Valkostir**, skrunað að *Svara ekki* og stutt á **Í lagi**. Ef stillt er á *Flytja þegar síminn er á tali* (valmynd 5-2) er símtal, sem ekki er svarað, einnig flutt.

## Símtal í bið

Þessi sérþjónusta gerir kleift að hringja annað símtal þótt símtal sé í gangi.

1. Stutt er á **Í bið**. Fyrra símtalið er sett í bið.
2. Hringt er í síðara númerið.
3. Ef skipta á úr einu símtali yfir í annað er stutt á **Víxla** eða .

   Ef ljúka á símtalinu sem er í gangi er stutt á .



**Ábending:** Einnig er hægt að taka hljóðið af línunni um stund. Stutt er á **Valkostir**, skrunað með  eða  að *Hljóðnemi af*. Þegar á að halda símtalinu áfram er stutt á **Hljóð á**.

## Símafundur

Þessi sérþjónusta gerir kleift að halda símafund með allt að sex þátttakendum.

1. Hringt er í fyrsta þátttakanda.
2. Stutt er á **Valkostir**, skrunað að *Ný hringing* og stutt á **Velja**. Hringt er í annan þátttakanda. Fyrsta símtalið er sett í bið.
3. Ef tengjast á fyrsta þátttakanda í símafundinum er stutt á **Valkostir**, valið *Símafundur* og stutt á **Velja**.
4. Ef bæta á nýjum þátttakanda í símtalið eru 2. og 3. liður endurteknir.
5. Ef einkasamtal á að fara fram við einn þátttakenda:
   - Stutt er á **Valkostir**, skrunað að *Einkasamtal* og stutt á **Velja**, síðan er skrunað að viðeigandi þátttakanda og stutt á **Í lagi**. Þegar einkasamtalinu er lokið næst aftur samband við símafundinn samkvæmt því sem er lýst í 3. lið.
6. Ef ljúka á símafundinum er stutt á .

## Símtal flutt

Þegar eitt símtal er virkt og annað í bið er hægt að tengja símtölin tvö og rjúfa sambandið við þau með þessari sérþjónustu.

# 4. Símaskrá (Nöfn)

## Um símaskrána

Hægt er að geyma nöfn og símanúmer í símaskránni í símanum eða í minni SIM-kortsins. Aðeins er hægt að nota eitt minni í einu. Fjallað er um geymslu nafna og símanúmera í Nöfn og númer vistuð á bls. 35.

- Í símaskrá símans er hægt að geyma 500 nöfn með 3 símanúmerum ásamt skýringartexta við hvert nafn. Ef minna en 500 nöfn eru geymd í skránni í símanum kann að vera hægt að geyma allt að því 5 númer og tvo skýringartexta við hvert nafn. Sjá Mörg símanúmer og textar vistuð með hverju nafni á bls. 37.
- Síminn styður SIM-kort sem geta geymt allt að því 250 nöfn og símanúmer.

### Farið í aðgerð í símaskránni

- Í biðham: Stutt er á **Nöfn**, skrunað með eða að viðeigandi aðgerð og stutt á **Velja**.

  Í símtali: Stutt er á **Valkostir**, skrunað með eða að *Símaskrá* og stutt á **Velja**. Skrunað er að viðeigandi aðgerð og stutt á **Velja**.



**Ábending:** Ef hraðaðgangur á að fást að lista yfir geymd nöfn og símanúmer er stutt á eða þegar síminn er í biðham.

Í hausnum efst á skjánum sést hvar í símaskránni notandi er staðsettur.

## Símaskráin valin

Hægt er að stilla símann til að nota innbyggðu símaskrána eða minnið í SIM-kortinu til að geyma nöfn og símanúmer.

**Til athugunar:** Ef geyma á mörg númer og texta við hvert nafn eða festa raddmerki við númer þarf að stilla símann svo að innbyggða símaskráin sé notuð. Ef númer eru geymd á SIM-kortinu þarf fyrst að afrita þau í símann. Sjá Símaskrár afritaðar á bls. 34.

1. Í biðham er stutt á **Nöfn**.
2. Skrunað er með eða að *Valkostir* og stutt á **Velja**.
3. Stutt er á **Velja** þegar *Minni í notkun* birtist.
4. Skrunað er að *Síminn* (til að stilla símann svo að innbyggða símaskráin verði notuð) eða *SIM-kort* (til að stilla á notkun minnis á SIM-kortinu) og stutt á **Velja**.

**Til athugunar:** Ef skipt er um SIM-kort er SIM-símaskráin valin sjálfkrafa.

## Símaskrár afritaðar

Hægt er að afrita nöfn og símanúmer úr minni símans yfir í minni SIM-kortsins eða öfugt.

1. Í biðham er stutt á **Nöfn**.
2. Skrunað er að *Afrita* og stutt á **Velja**.
3. Skrunað er með eða að viðeigandi afritunarstefnu (*Frá símanum til SIM-korts* eða *Afrita minnið frá SIM-korti til símans*) og stutt á **Velja**.
4. Skrunað er að *Eitt í einu*, *Allt* eða *Aðalnúmer* og stutt á **Velja**.

   Ef valið var *Eitt í einu* er skrunað að nafninu sem á að afrita og stutt á **Afrita**.

Bent er á að í aðgerðinni *Afrita minnið frá SIM-korti til símans* er textinn *Aðalnúmer* ekki sýnilegur.

5. Valið er hvort eigi að geyma upphafleg nöfn og númer.
6. Ef valið er *Allt* eða *Aðalnúmer* er stutt á **Í lagi** þegar textinn *Byrja að afrita?* birtist.

## Nöfn og númer vistuð

1. Stutt er á **Nöfn**, skrunað að *Bæta í* og stutt á **Velja**.
2. Nafnið er fært inn; stutt er á einhverja tölu (1 til 9), hvað eftir annað þar til rétti bókstafurinn eða tölustafurinn birtist. Algengustu greinarmerki og sérstafir fást með því að styðja á tölutakkann 1. Bil er fært inn með því að styðja á 0.

   **Til athugunar:** Ekki eru allir stafir á tölutakka prentaðir á takkann. Stafirnir á tölutakka eru háðir tungumálinu sem valið er í
   valmynd 4-4-1.



**Ábending:** Þegar nöfn eru færð í símaskrána eru þau skráð með titilletri, fremsti bókstafurinn er sjálfkrafa hástafur en aðrir stafir eru ritaðir með lágstöfum.

3.Stutt er á **Í lagi**.

4. Valið er svæðis- og símanúmer og stutt á **Í lagi**. Í Raddmerki bætt við símanúmer á bls. 41 er fjallað um hvernig raddmerki er bætt við.

**Texti ritaður:**

- Ef næsti bókstafur er á sama takka og sá sem verið er að rita er stutt á ⌄ eða ⌃ (eða beðið þar til bendillinn birtist á ný) og þá er stafurinn valinn.

- Stutt er snöggt á [#] til að skipta á milli hástafa og lágstafa. Táknið **ABC** eða **abc** sem birtist efst á skjánum gefur til kynna hvort er valið, hástafir eða lágstafir.
- Stutt er á takkann með viðeigandi tölustaf og honum haldið niðri til að setja inn tölustafinn. Tölustafahamur er gefinn til kynna með **123** efst á skjánum. Stutt er á [#] og honum haldið niðri til að skipta milli bókstafa og tölustafa.
- Ef stutt er á [*] kemur upp listi yfir sérstafi. Skrunað er í listanum að viðeigandi staf með [v] eða [^] og stutt á **Nota** til að setja hann inn í nafnið.
- Ef stafalistinn heldur áfram á næstu skjámynd er hægt að skruna milli skjámynda með því að styðja á [*].
- Ef mistök eru gerð er hægt að fjarlægja stafinn vinstra megin við bendilinn með því að styðja á **Hreinsa** svo oft sem þörf er á. Ef stutt er á **Hreinsa** og honum haldið niðri hreinsast skjárinn.
- [v] og [^] færa bendilinn til hægri og vinstri, eftir því sem við á.



**Ábending:** Ef merkið + er valið fyrir forval til útland (stutt er tvisvar á [*]) á undan landsnúmerinu er hægt að nota sama símanúmer þegar hringt er frá útlöndum.

**Hraðvistun:**

Símanúmerið er valið í biðham, stutt á **Valkostir** og valið **Vista**. Þá er nafnið fært inn og stutt á **Í lagi**.

Einnig er hægt að vista símanúmerið eingöngu: símanúmerið er valið og stutt á **Valkostir** og takkanum haldið niðri.

## Gerð skoðunar fyrir vistuð nöfn og símanúmer stillt

Hægt er að stilla símann á tvo mismunandi vegu til að skoða vistuð nöfn og símanúmer.

1. Stutt er á **Nöfn**, skrunað með [v] eða [^] að *Valkostir* og stutt á **Velja**.

 

2. Skrunað er að *Minnið sýnir* og stutt á **Velja**.
3. Skrunað er að *Nafnaskrá* (birtir þrjú nöfn í hvert sinn) eða *Nafn og númer* (sýnir eitt nafn og símanúmer í hvert sinn) og stutt á **Í lagi**.

## Mörg símanúmer og textar vistuð með hverju nafni

Hægt er að nota símann sem tengiliðaskrá þar sem í innbyggðu símaskránni er hægt að geyma mörg símanúmer ásamt texta, svo sem netföng, heimilisföng eða athugasemdir við nafn. Hægt er að geyma allt að því 2 texta við hvert nafn.

Fyrsta númerið sem vistað er við nafn verður sjálfkrafa aðalnúmer. Þegar nafn er valið úr símaskrá, til dæmis til að hringja eða senda boð, er aðalnúmerið notað nema annað númer hafi verið valið. Hægt er að geyma allt að því 5 númer við hvert nafn.

Hægt er að velja númersgerð fyrir hvert símanúmer eða hvern texta. Ef númersgerð er ekki valin verður númeragerðin notuð. Aðalnúmerið er auðkennt með ramma utan um teikn númeragerðarinnar, til dæmis .

## Nýju númeri eða texta bætt við nafn:

Mörg númer er aðeins hægt að vista í minni símans.

**Til athugunar:** Áður en nöfn og númer eru vistuð þarf að breyta minninu sem er notað úr *SIM-kort* í *Síminn*. Leiðbeiningar eru í Símaskráin valin á bls. 34.

1. Farið er í nafnalistann, til dæmis með því að styðja á ⌄ eða ⌃.
2. Skrunað er með ⌄ eða ⌃ að nafninu þar sem á að bæta við nýju númeri eða texta og stutt á **Nánar**.
3. Stutt er á **Valkostir** og skrunað að *Bæta númeri við* eða *Bæta við texta* og stutt á **Velja**.
4. Skrunað er að númera- eða textagerð og stutt á **Velja**.

   *Almennt* (sjálfgefin gerð þegar engin önnur gerð er valin)
   *Farsími*
   *Heimasími*
   *Vinnusími*
   *Símbréf*
   *Tölvupóstur* (textagerð)
   *Póstfang* (textagerð)
   *Athugasemd* (textagerð)

   Hægt er að breyta gerð númersins eða textans síðar með valkostinum *Breyta tegund* á listanum yfir valkosti.
5. Númerið er fært inn, eða textinn, og stutt á **Í lagi** til að vista það.
6. Stutt er á **Valkostir** (og 3. og 4. liður endurteknir) ef á að halda áfram að bæta númerum eða texta við nafnið. Stutt er á **Til baka** og **Hætta** til að loka símaskránni og fara aftur í biðham.

### Sjálfgefnu númeri breytt:

1. Í nafnalistanum er skrunað að viðeigandi nafni og stutt á **Nánar**.
2. Skrunað er með [niður] eða [upp] að númerinu sem á að vera sjálfgilt og stutt á **Valkostir**.
3. Skrunað er að *Velja aðalnr.* og stutt á **Velja**.

## Leitað og hringt úr símaskrá

1. Í biðham er stutt á **Nöfn**.
2. Skrunað er að *Leita* og stutt á **Velja**.
3. Valinn er fyrsti bókstafurinn í nafninu (eða stutt á **Símaskrá** til að birta nafnalistann) sem verið er að leita að og stutt á **Leita**. Sprettiglugginn birtist.
4. Skrunað er með ⌄ eða ⌃ að viðeigandi nafni eða fleiri leitarskilyrði eru færð í sprettigluggann og skrunað að viðeigandi nafni.
5. Þegar nafnið er auðkennt er stutt á **Nánar**, skrunað að *Skoða nánar* til að skoða upplýsingarnar um auðkennda nafnið, eða stutt á ☎ til að hringja í það.



**Ábending:** Ef finna á nafn og símanúmer í skyndi er stutt á ⌄ (í biðham), fyrsti stafurinn (fyrstu stafirnir) í nafninu valinn, síðan er skrunað með ⌄ eða ⌃ að viðeigandi nafni.

### Hringt í þjónustunúmer

Með þessari aðgerð er auðvelt að hringja í eitthvert þjónustunúmerið sem þjónustuveitan kann að hafa komið fyrir á SIM-kortinu. Þessi aðgerð birtist ekki ef engin þjónustunúmer eru á SIM-kortinu.

1. Í biðham er stutt á **Nöfn**.
2. Skrunað er með ⌄ eða ⌃ að *Númer þjónustu* og stutt á **Velja**.
3. Skrunað er að viðeigandi þjónustunúmeri og stutt á ☎ til að hringja í númerið.

## Raddstýrt val

Með raddstýrðu vali er hægt að hringja með því að gefa raddmerki sem bætt hefur verið við tiltekið símanúmer. Öll töluð orð svo sem fornafn, eftirnafn og gerð númers (til dæmis *Farsími*) geta verið raddmerki.

**Áður en raddstýrt val er notað er bent á eftirfarandi:**

- Aðeins er hægt að geyma raddmerki í minni símans. Þau símanúmer sem á að bæta raddmerkjum við eru vistuð eða afrituð í minni símans.
- Þegar raddmerki er hljóðritað eða hringt er með því að gefa raddmerki er símanum haldið í hefðbundinni stöðu við eyrað.
- Raddmerki eru ekki háð tungumáli. Þau eru háð rödd þess sem talar.
- Raddmerki eru næm á hávaða í bakgrunni og þau þarf að hljóðrita í kyrrlátu umhverfi.
- Mjög stutt nöfn eru ekki samþykkt; nota þarf löng nöfn og forðast lík nöfn fyrir mismunandi símanúmer.

  **Til athugunar:** Síminn verður að vera á þjónustusvæði með nægilegum sendistyrk. Einnig þarf að bera nafnið fram nákvæmlega eins og það var hljóðritað. Þetta gæti verið erfitt, til dæmis í hávaðasömu umhverfi eða í neyðartilvikum, það ætti því ekki að treysta eingöngu á raddstýrt val við allar aðstæður.

### Raddmerki bætt við símanúmer

Aðeins er hægt að bæta raddmerkjum við símanúmer sem geymd eru í minni símans. Fyrst skal skipta um það minni sem notað er úr *SIM-kort* í *Síminn*, sjá leiðbeiningar í Símaskráin valin á bls. 34. Síðan eru nafn og númer vistuð í minni símans, sjá leiðbeiningar í Nöfn og númer vistuð á bls. 35 og Mörg símanúmer og textar vistuð með hverju nafni á bls. 37.

1. Farið er í nafnalistann, til dæmis með því að styðja á ⌄ eða ⌃.
2. Skrunað er með ⌄ eða ⌃ að nafninu sem bæta á raddmerki við og stutt á **Nánar**.
3. Skruntakkarnir ⌄ eða ⌃ eru notaðir til að velja númerið sem bæta á við raddmerkið.
4. Stutt er á **Valkostir** og skrunað með ⌄ eða ⌃ að *Skrá raddmerki* og stutt á **Velja**.
5. Stutt er á **Byrja** þegar textinn *Ýttu á Byrja og talaðu eftir tónmerki* birtist: hljóðmerki um að byrja heyrist og textinn *Tala núna* birtist.
6. Símanum er haldið að eyranu og orðin sem á að hljóðrita sem raddmerki eru sögð greinilega eftir hljóðmerkið.
7. Eftir hljóðritun er raddmerkið spilað og *Spilar raddmerki* birtist. Ef ekki á að vista hljóðritunina er stutt á **Hætta**.
8. Þegar búið er að vista raddmerkið birtist *Raddmerki vistað* og píp heyrist.

   Raddmerkið er nú geymt í minni símans og táknið birtist fyrir aftan símanúmerið með raddmerkinu.

   **Til athugunar:** Raddmerki getur verið tengt tíu símanúmerum í einu. Þegar minni þrýtur skal eyða einhverjum raddmerkjum. Skruntakkarnir ⌄ eða ⌃ eru notaðir til að finna númerið með raddmerkinu sem á að eyða.

### Hringt með raddmerki

1. Í biðham er stutt á **Nöfn** og takkanum haldið niðri til að hefja raddstýrt val: stutt hljóðmerki er spilað og *Tala núna* birtist.
2. Símanum er haldið í hefðbundinni stöðu að eyranu og raddmerkið er gefið greinilega.
3. Síminn spilar nafnið og velur sjálfvirkt númerið með raddmerkinu sem hann þekkir eftir eina og hálfa sekúndu.

- Ef textinn *Engin raddmerki skráð* birtist eftir að stutt er á **Nöfn** og takkanum haldið niðri þarf að ganga úr skugga um að verið sé að nota minni símans.

**Hringt með HDC-9P-heyrnartólinu**

1. Stutt er á takkann á heyrnartólinu: stutt hljóðmerki heyrist.
2. Raddmerkið þarf að gefa greinilega.
3. Síminn spilar merkið og velur sjálfvirkt númerið með raddmerkinu sem hann þekkir eftir eina og hálfa sekúndu.

## Raddmerki endurspilað

Hægt er að spila raddmerki aftur þegar búið er að tengja þau við númer.

1. Í biðham er stutt á **Nöfn** til að birta símaskrána.
2. Leitað er að nafninu með raddmerkinu sem á að spila aftur.
3. Stutt er á **Nánar**. Skruntakkarnir eða eru notaðir til að leita að viðeigandi númeri. Táknið er birt á eftir símanúmerinu með raddmerkinu.
4. Stutt er á **Valkostir**. Skrunað er að *Raddmerki* og stutt á **Velja**.
5. Skrunað er að *Spila* og stutt á **Velja**. Símanum er haldið að eyranu til að hlusta á raddmerkið.

## Raddmerki breytt

1. Í biðham er stutt á **Nöfn** til að birta símaskrána.
2. Leitað er að nafninu með raddmerkinu sem á að breyta.
3. Stutt er á **Nánar**. Skruntakkarnir eða eru notaðir til að leita að viðeigandi númeri. Táknið birtist á eftir símanúmerinu með raddmerkinu.
4. Stutt er á **Valkostir**. Skrunað er að *Raddmerki* og stutt á **Velja**.

5. Skrunað er að *Breyta* og stutt á **Velja**. *Ýttu á Byrja og talaðu eftir tónmerki* birtist.
6. Stutt er á **Byrja**: hljóðmerki um að byrja heyrist og textinn *Tala núna* birtist.
7. Nýja raddmerkið þarf að gefa greinilega. Síminn spilar nýja raddmerkið aftur og staðfestir að það hafi verið vistað.

### Raddmerki eytt

1. Í biðham er stutt er á **Nöfn** til að birta símaskrána.
2. Leitað er að nafninu með raddmerkinu sem á að eyða.
3. Stutt er á **Nánar**. Skruntakkarnir eða eru notaðir til að leita að viðeigandi númeri. Táknið birtist á eftir símanúmerinu með raddmerkinu.
4. Stutt er á **Valkostir**. Skrunað er að *Raddmerki* og stutt á **Velja**.
5. Skrunað er að *Eyða* og stutt á **Velja**. *Eyða raddmerki?* birtist.
6. Stutt er á **Í lagi** til að eyða raddmerki.

## Hraðvalstakka úthlutað símanúmeri

Hægt er að stilla alla tölutakkana 2abc - 9wxyz sem hraðval. Þá þarf að úthluta takka símanúmeri.

1. Stutt er á **Nöfn**, skrunað að *Hraðvalsnúmer* og stutt á **Velja**.
2. Skrunað er að viðeigandi hraðvalstakka (2 til 9) og stutt á **Velja**.
3. Stutt er á **Leita**, skrunað að viðeigandi nafni og stutt á **Velja**.
4. Stutt er á **Velja** til að velja númerið sem var birt. Ef fleiri en eitt númer er vistað með nafninu er skrunað með eða að viðeigandi númeri og stutt á **Velja**.

Þegar hraðvalstakka hefur verið úthlutað númeri er hægt að hringja, skoða eða breyta númerinu eða afturkalla hraðvalið.

### Hringt með hraðvalstökkum

Þegar hraðvalstakki (2abc til 9wxyz) er valinn fyrir símanúmer er hægt að hringja í símanúmerið á annan hvorn eftirtalinn hátt:

- Stutt er á samsvarandi hraðvalstakka og síðan á .
- Ef valmyndaraðgerðin *Hraðval* (valmynd 4-3-3) er virk er stutt á samsvarandi hraðvalstakka og honum haldið niðri þar til hringir.



**Ábending:** Ef stutt er á 1 og takkanum haldið niðri er hringt í talhólfsnúmerið.

## Símaskráin skipulögð

### Nafni og númeri breytt

1. Nafnið eða númerið sem á að breyta er sótt og stutt á **Nánar** og **Valkostir**.
2. Skrunað er að *Breyta nafni* eða *Breyta númeri* og stutt á **Velja**.
3. Nafninu eða númerinu er breytt og stutt á **Í lagi**.

### Nafni og númeri eytt

Hægt er að strika út nöfn og símanúmer úr valinni símaskrá, eitt af öðru eða öll samtímis.

#### Nafni og númeri eytt

1. Nafnið og númerið sem á að breyta er sótt og stutt á **Nánar** og **Valkostir**.
2. Skrunað er að *Eyða* og stutt á **Velja**.

**Til athugunar:** Ef mörg númer eru vistuð með nafni eyðir valkosturinn *Eyða* nafninu, öllum símanúmerum og textagerð sem vistuð er ásamt nafninu.

**Öllum nöfnum og númerum eytt**

1. Stutt er á **Nöfn**, skrunað að *Eyða* og stutt á **Velja**.
2. Skrunað er að *Eyða öllum* og stutt á **Velja**.
3. Skrunað er að símaskránni sem á að eyða (*SIM-kort* eða *Síminn*) og stutt á **Í lagi**.
4. Stutt er á **Í lagi** þegar textinn *Ertu viss?* birtist. Síðan er öryggisnúmerið valið og stutt á **Í lagi**.

## Nöfn og símanúmer send og móttekin

Hægt er að senda eða taka á móti persónulegum upplýsingum, til dæmis nafnspjaldi, annaðhvort um IR (innrauða tengið) eða sem OTA-boð ef netið styður slíkar sendingar.

Ef nafnspjald er sent sem OTA-boð er viðeigandi nafn og númer fundið í símaskránni og valkosturinn *Senda nafnspj.* síðan notaður.

Ef nafnspjald er sent um IR er valkosturinn *Nafnspj. IR* notaður. Sjá einnig Afritað um IR á bls. 46.

Þegar nafnspjald er móttekið er stutt á **Sýna**. Síðan er stutt á **Valkostir**, valið *Vista* eða *Fleygja* og stutt á **Velja**.

## Afritað um IR

### Nafn og númer úr símanum afritað

Hægt er að senda færslur í símaskrá sem nafnspjöld um innrauða tengið (IR) í samhæfan síma eða tölvu sem keyrir viðeigandi forrit.

1. Ganga þarf úr skugga um að hinn síminn eða tölvan séu uppsett til að taka á móti gögnum um IR-tengi.
2. Nafnið og símanúmerið sem á að afrita er sótt.
3. Stutt er á **Valkostir**, skrunað að *Nafnspj. IR* til að afrita símanúmerið og nafnið í annan síma eða tölvu.
4. Stutt er á **Velja**.

### Nafn og símanúmer afritað í símann

Nöfn og símanúmer afrituð úr öðrum samhæfum síma.

1. Stutt er á **Valmynd**, skrunað að *IR-tenging* (valmynd 9) og stutt á **Velja**. Síminn er undir það búinn að taka við gögnum um IR-tengið.

   Notandi hins símans getur nú sent nafnið og símanúmerið um innrauða tengið.
2. Þegar nafnið og símanúmerið hafa verið afrituð yfir í símann er stutt á **Sýna**. Síðan er stutt á **Valkostir**, valið *Vista* eða *Fleygja* og stutt á **Velja**.

## Viðmælendahópar

Hægt er að stilla símann svo að hann hringi á sérstakan hátt og birti valda mynd á skjánum þegar tekið er á móti símtali sem tengist tilteknu nafni og símanúmeri. Fyrst þarf að setja nafn og númer í viðmælendahóp. Þá eru tónn og mynd hringingar skilgreind fyrir hópinn.

**Til athugunar:** Hægt er að stilla símann svo að hann hringi aðeins þegar símtöl berast frá nöfnum og númerum sem tilheyra tilteknum viðmælendahópi með því að nota stillinguna *Hringir frá þessum hópum* í valmyndinni Snið, sjá Sérsnið á bls. 71.

## Nafni og símanúmeri bætt við viðmælendahóp

1. Stutt er á **Nöfn** skrunað með [V] eða [^] að *Hópar viðm.* og stutt á **Velja**.
2. Skrunað er að viðeigandi viðmælendahópi og stutt á **Velja**.
3. Skrunað er að *Hópfélagar* og stutt á **Velja**.
4. Stutt er á **Í lagi** þegar *Bæta við nafni* er auðkennt, síðan er skrunað að viðeigandi nafni og stutt á **Bæta við**.

   Ef nöfnum og númerum hefur þegar verið bætt við hópinn er stutt á **Valkostir**, skrunað að *Bæta við nafni* og stutt á **Í lagi**. Síðan er skrunað að viðeigandi nafni og stutt á **Bæta við**.
5. Ef fleiri en eitt númer er vistað við nafn er skrunað að númerinu sem á að bæta við viðmælendahópinn og stutt á **Í lagi**.



**Ábending:** Einnig er hægt að bæta nýju nafni við viðmælendahóp með því að sækja nafnið og númerið í símaskrána, styðja á **Nánar** og **Valkostir**, skruna að *Hópar viðm.*, styðja á **Velja** og skruna síðan að viðeigandi viðmælendahópi og styðja á **Velja**.

### Hringitónn og mynd sett upp fyrir viðmælendahóp og hópi gefið nýtt heiti

1. Stutt er á **Nöfn**, skrunað að *Hópar viðm.* og stutt á **Velja**.
2. Skrunað er að viðmælendahópi og stutt á **Velja**.
3. Skrunað er að einni eftirfarandi stillingu og stutt á **Velja**.
   - *Heiti hóps*. Ef endurskíra á viðmælendahóp er nýtt heiti fært inn og stutt á **Í lagi**.
   - *Hringitónn hóps*. Ef stilla á símann svo að hann hringi á sérstakan hátt fyrir hópinn er skrunað að viðeigandi tóni og stutt á **Í lagi**. *Sjálfgefið* er tóninn sem valinn var fyrir sniðið sem var valið.
   - *Mynd hópsins*. Ef stilla á símann svo að mynd hópsins birtist er skrunað að *Kveikt* og stutt á **Í lagi**.

Á listanum yfir valkosti eru valkostir til að skoða og senda (*Senda mynd*) myndina sem OTA-boð ef netið styður það.

Einnig er hægt að taka á móti nýrri mynd fyrir hópinn í símanum sem OTA-boð. Þegar tekið er á móti hópmynd er stutt á **Sýna**, síðan er stutt á **Valkostir**, valið *Vista* eða *Fleygja* og stutt á **Velja**. Ef valið var *Vista*, er skrunað að viðeigandi viðmælendahópi og stutt á **Í lagi**.

### Nafn og númer fjarlægð úr viðmælendahópi

1. Stutt er á **Nöfn**, skrunað að *Hópar viðm.* og stutt á **Velja**.
2. Skrunað er að viðeigandi viðmælendahópi og stutt á **Velja**.
3. Skrunað er að *Hópfélagar* og stutt á **Velja**.
4. Skrunað er að nafninu sem á að strika út, stutt á **Valkostir**, skrunað á *Strika nafn út* og stutt á **Í lagi**.

 

## Staða minnis

Hægt er að kanna hve mikið af innra minni símans er í notkun eða hve mörg nöfn og númer eru vistuð á SIM-kortinu og hve mikið minni er laust.

1. Í biðham er stutt á **Nöfn**.
2. Skrunað er með ⌄ eða ⌃ að *Valkostir* og stutt á **Velja**.
3. Skrunað er með ⌄ eða ⌃ að *Sýna stöðu minnis* og stutt á **Velja**. Staða SIM-kortsins birtist.
4. Stutt er á ⌄ eða ⌃ til að sjá stöðuna á innra minni símans.

# 5. Notkun valmyndarinnar

Í símanum er fjöldi aðgerða sem eru flokkaðar í valmyndir og undirvalmyndir. Hægt er að birta valmyndirnar og undirvalmyndirnar með því að skruna með eða eða með því að nota viðeigandi flýtinúmer. Í hausnum efst á skjánum er hægt að finna hvar verið er í valmyndinni.

Með flestum valmyndaraðgerðunum er stuttur hjálpartexti. Ef skoða á hjálpartextann er skrunað að viðeigandi valmyndaraðgerð og beðið í 15 sekúndur. Hætt er í hjálpartextanum með því að styðja á **Til baka**.

## Farið í valmyndaraðgerð með skruni

1. Aðgangur að valmyndaraðgerð fæst með því að styðja á **Valmynd**. Stutt er á eða til að fá viðeigandi aðalvalmynd á skjáinn, til dæmis *Stillingar*. Stutt er á **Velja** til að fara í valmyndina.
2. Ef undirvalmyndir eru í valmyndinni er sú rétta fundin með því að skruna með eða . Stutt er á **Velja** til að fara í undirvalmynd (til dæmis *Símtalsstillingar*).
3. Ef undirvalmyndir eru í valmyndinni sem var valin er 2. liður endurtekinn. Stutt er á **Velja** til að fara í næstu undirvalmynd (til dæmis *Lyklaborðssvar*).
4. Stutt er á eða til að velja stillingu og staðfesta hana.



**Ábending:** Ef fara á aftur í síðustu valmynd er stutt á **Til baka**. Ef hætta á í valmyndinni án þess að breyta stillingum og fara aftur í biðham er stutt á .

## Farið í valmyndaraðgerð með flýtinúmeri hennar

Valmyndaratriðin (valmyndir, undirvalmyndir og stillingarvalkostir) eru tölusett og hægt er að birta þau í skyndi með flýtivísunum. Sjá listann yfir valmyndaraðgerðirnar til að skoða flýtinúmer í valmyndir.

1. Stutt er á **Valmynd**.
2. Vísunarnúmer valmyndaraðgerðarinnar sem á að birta er fært inn hratt, það má ekki taka lengri tíma en tveimur sekúndur. Ef til dæmis gera á aðgerðina Lyklaborðssvar virka: Stutt er á **Valmynd**, 4 ghi, 3 def og 1.
   - **Valmynd** til að fara í valmyndina
   - 4 ghi fyrir *Stillingar*
   - 3 def fyrir *Símtalsstillingar*
   - 1 fyrir *Lyklaborðssvar*

## Listi yfir valmyndaraðgerðir

**1. Skilaboð**



1. Skrifa skilaboð
2. Innhólf
3. Úthólf
4. SMS-safn
5. Skjalasnið
6. Mínar möppur
7. Eyða öllum
8. SMS-stillingar
    1. Númer miðstöðvar
    2. Skilaboð send sem
    3. Gildistími
    4. Númer aðalviðtakanda
    5. Tilkynningar um skil
    6. Svar frá sömu SMS-miðstöð
    7. Snið á SMS

**2. Símtalaskrá**



1. Hringingum ósvarað
2. Hringt var frá
3. Hringt var í
4. Eyða nýlegum símtölum
5. Lengd símtals
    1. Lengd síðasta símtals
    2. Lengd allra símtala
    3. Símtöl inn: tími
    4. Símtöl út: tími
    5. Núllstilla teljara
6. Kostnaður við símtöl
    1. Skref síð. símtals
    2. Skref allra símtala

**3. Sérsnið**



1. Almennt
    1. Gera virkt
    2. Eigið val
        1. Velja hringingu
        2. Hringitónn
        3. Styrkur hringingar
        4. Titringur
        5. Hringing
        6. Takkatónar
        7. Aðvörunarhljóð
        8. Hringir frá þessum hópum
2. Hljótt
    1. Gera virkt
    2. Eigið val (sömu undirvalmyndir og eru í Almennt)
    3. Endurskíra

3. Fundur (sömu undirvalmyndir og eru í Hljótt)
4. Utandyra (sömu undirvalmyndir og eru í Hljótt)
5. Símboði (sömu undirvalmyndir og eru í Hljótt)
6. Handfrjálst[1] (sömu undirvalmyndir og eru í Almennt auk Sjálfvirkt svar og Ljós)
7. Heyrnartól[2] (sömu undirvalmyndir og eru í Almennt auk Sjálfvirkt svar)

**4. Stillingar**

1. Vekjaraklukka
2. Klukka
3. Símtalsstillingar
   1. Lyklaborðssvar
   2. Sjálfvirkt endurval
   3. Hraðval
   4. Biðþjónusta fyrir símtöl
   5. Lína til að hringja
   6. Samantekt eftir símtal[3]
   7. Símbréf eða gagnasending
   8. Númerabirting
4. Símastillingar
   1. Tungumál
   2. Uppl. um endurvarpa
   3. Opnunarkveðja
   4. Val á neti
   5. Staðfesta SIM-aðgerð
5. Stillingar fyrir samskipti
   1. Upplýsingaþjónusta
   2. Hlusta á talboð
   3. Númer talhólfs
   4. Þjónustuskipun
6. Öryggisstillingar
   1. Krefjast PIN-númers
   2. Útilokunarþjónusta
   3. Fast númeraval
   4. Lokaður notendahópur
   5. Öryggisstig
   6. Breyta aðgangslyklum
      1. Breyta öryggisnúmeri
      2. Breyta PIN-númeri
      3. Breyta PIN2-númeri
      4. Breyta lykilorði fyrir útilokun
7. Setja upphafsstillingar

**5. Flutningar**



1. Þetta snið sést aðeins ef síminn er eða hefur verið notaður með bílbúnaðinum CARK-91.
2. Þetta snið sést aðeins ef síminn er eða hefur verið notaður með heyrnartólinu HDC-9P.
3. Ef SIM-kortið styður ekki aðgerðina Lína til að hringja er Uppl. eftir símtali valmynd 4-2-5.

1. Flytja öll símtöl
2. Flytja þegar síminn er á tali
3. Flytja þegar enginn svarar
4. Flytja ef slökkt er eða síminn utan svæðis
5. Flytja ef samband næst ekki
6. Flytja öll símbréf
7. Flytja allar gagnasendingar
8. Fella alla símtalsflutninga úr gildi

**6. Leikir**

**7. Reiknivél**

**8. Dagbók**

**9. IR-tenging**

**10. Þjónusta**

**11. SIM-þjónusta**[1]





1. Aðeins sýnt með stuðningi SIM-korts. Nafnið og efnið fer eftir SIM-kortinu.

# 6. Valmyndaraðgerðir

## Skilaboð (valmynd 1)



Í valmyndinni *Skilaboð* er hægt að lesa, rita og senda texta og myndir eða vista móttekin boð í möppunum til að nota síðar.

**Til athugunar:** Áður en hægt er að senda texta- eða myndboð þarf að vista númer miðstöðvarinnar með valkostinum *Númer miðstöðvar* í *SMS-stillingar* í þessari valmynd yfir *Skilaboð*. Númer fyrir miðstöðina fæst hjá þjónustuveitunni.

### Textaboð rituð og send

Í valmyndinni *Skrifa skilaboð* er hægt að rita og breyta textaboðum sem í eru allt að því 160 stafir. Hægt er að rita boð á tvo vegu:

- með aðferðinni sem venjulega er notuð í farsímum, gefin til kynna með og
- með aðferð sem nefnist sjálfvirk ritun, gefin til kynna með .

1. Í biðham er stutt á **Valmynd**, stutt á **Velja** þegar *Skilaboð* birtist.
2. Stutt er á **Velja** þegar *Skrifa skilaboð* birtist.
3. Boð færð inn.



**Ábending:** Þegar texti er ritaður er notað textaletur, fyrsti stafur í setningu er þá sjálfkrafa hástafur.

Fjallað er um hvernig skjalasnið eru sett inn í Stöðluð svör og skjalasnið á bls. 60 og hvernig myndir eru settar inn í boð í Myndir settar inn á bls. 60.

Hægt er að nota venjulega textaritun sem lýst er í Nöfn og númer vistuð á bls. 35.

Að öðrum kosti má nota sjálfvirka ritun. Sjá Sjálfvirk ritun á bls. 57.

4. Boð eru send með því að styðja á **Valkostir**.
5. Stutt er á **Velja** þegar *Senda* er auðkennt.

   Á listanum yfir valkostina eru valkostir um að senda, vista og eyða boðum sem verið er að rita.
6. Fært er inn símanúmer viðtakanda eða símanúmerið sótt í símaskrána með því að styðja á **Leita**. Nafnið er fundið og stutt á **Í lagi**.
7. Stutt er á **Í lagi** til að senda boðin.

## Sjálfvirk ritun

Með sjálfvirkri ritun er hægt að færa inn staf með því að styðja einu sinni á takka. Þessi ritun byggist á innbyggðu orðabókinni sem hægt er að bæta í nýjum orðum.

### Tungumál valið fyrir sjálfvirka ritun

1. Í biðham er stutt á **Valmynd**, stutt á **Velja** þegar *Skilaboð* birtist.
2. Stutt er á **Velja** þegar *Skrifa skilaboð* birtist.
3. Stutt er á **Valkostir**, skrunað að *Orðabók* og stutt á **Velja**.

   **Til athugunar:** Sjálfvirk ritun er aðeins tiltæk á þeim tungumálum sem skráð eru í listann yfir valkosti í orðabók.
4. Skrunað er að viðeigandi tungumál og stutt á **Velja**. *T9-orðabók virk* birtist og sjálfvirk ritun er nú virk, og er það gefið til kynna með .

 

Hægt er að skipta úr sjálfvirkri ritun í venjulega ritun með því að styðja á **Valkostir** (í valmyndinni *Skrifa skilaboð*) og skruna að *Orðabók*. Skrunað er að *Orðabók óvirk* og stutt á **Velja**. *T9- orðabók óvirk* birtist.



**Ábending:** Stutt er á **Valkostir** og takkanum haldið niðri til að gera sjálfvirka ritun virka eða óvirka í skyndi.

### Orð rituð með sjálfvirkri ritun

1. Byrjað er á að rita orð með tökkunum 2abc til 9wxyz. Aðeins er stutt einu sinni á takka fyrir hvern staf.

   Ef til dæmis enska orðabókin er valin og ritað **Nokia** er stutt á:




   Orðið breytist með hverjum áslætti, ekki skal veita því neina athygli hvernig orðið birtist á skjánum fyrr en lokið er við að færa inn alla stafina.

   - Ef eyða á staf er stutt á **Hreinsa**.
   - Ef breyta á í hástaf eða lágstaf er stutt á #.
   - Ef fara á milli bókstafa- og tölustafahams er stutt á # og honum haldið niðri.

- Ef skjóta á inn orði er stutt á **Valkostir**. Skrunað er að *Bæta í orði* og stutt á **Velja**. Orðið er ritað og stutt á **Vista**.
- Ef setja á inn einn tölustaf í bókstafaham er stutt á takkann með viðeigandi tölustaf og honum haldið niðri.
- Ef setja á inn nokkra tölustafi er stutt á **Valkostir**. Skrunað er að *Bæta númeri í* og stutt á **Velja**. Tölustafirnir eru færðir inn og stutt á **Í lagi**.
- Ef setja á inn tákn er stutt á [* +] og honum haldið niðri. Táknið er valið og stutt á **Nota**.

  Annar kostur er að styðja á **Valkostir**, skruna að *Bæta í tákni* og styðja á **Velja**. Skrunað er að viðeigandi tákni og stutt á **Nota**.

2. Þegar lokið er við að rita orðið og það er rétt er það staðfest með því að styðja á [v] eða bæta við bili með [0 ⌴].
3. Ef orðið er rétt má byrja að rita næsta orð.

   Ef orðið er rangt er um eftirtalda valkosti að ræða:

   - Stutt er á [* +] hvað eftir annað þar til orðið birtist og það síðan staðfest.
   - Stutt er á **Valkostir**, skrunað að *Skoða næsta* og stutt á **Velja**.

   Ef greinarmerkið ? birtist aftan við orðið er orðið sem ætlunin var að rita ekki í orðabókinni. Ef bæta á orðinu í orðabókina er stutt á **Stafa**.

**Orðið sett á lista yfir samræmd orð**

1. Ef ekkert eins orð finnst í sjálfvirka rithamnum má setja inn nýtt orð í orðabókina. Stutt er á **Stafa** og orðið ritað með hefðbundna rithamnum.
2. Stutt er á **Vista** til að vista orðið.

**Til athugunar:** Þegar orðabókin er orðin full kemur nýja orðið í stað þess sem lengst er síðan að bætt var við.

**Samsett orð rituð**

1. Fyrri hluti orðsins er færður inn og hann samþykktur með því að styðja á .
2. Síðari hluti samsetta orðsins er færður inn og orðið samþykkt með því að styðja á 0 eða .

## Stöðluð svör og skjalasnið

Í símanum er listi yfir stöðluð svör og skjalasnið sem hægt er að nota þegar boðum er svarað. Einnig er hægt að nota sniðmát þegar boð eru rituð.

Listi yfir sjálfgefin sniðmát eru í möppunni *Skjalasnið* í valmyndinni *Skilaboð*. Hægt er að breyta sniðmáti textaboða að vild, en upprunalega skjalasniðið verður endurheimt þegar valmyndin 4-7 er valin (*Setja upphafsstillingar*).

**Skjalasnið sett inn:**

1. Í valmyndinni *Skrifa skilaboð* er stutt á **Valkostir**.
2. Skrunað er að *Nota skjalasnið* og stutt á **Velja**.
3. Skrunað er að viðeigandi skjalasniði og stutt á **Velja**.

   Teiknið  birtist framan við sniðmát textaboðanna. Teiknið  birtist framan við sniðmát myndboðanna.

## Myndir settar inn

Í símanum eru 10 skjalasnið fyrir myndboð. Einnig er hægt að vista nýjar myndir í möppuna *Skjalasnið*. Fleiri myndir er að finna á vefsetri Nokia (http://www.club.nokia.com).

 

**Til athugunar:** Þessa aðgerð er eingöngu hægt að nota ef símafyrirtæki eða þjónustuveita styðja hana. Aðeins símar með möguleika á myndboðum geta tekið á móti og birt myndboð.

**Mynd sett inn í textaboð:**

1. Í valmyndinni *Skrifa skilaboð* er stutt á **Valkostir**.
2. Skrunað er að *Hengja mynd við* og stutt á **Velja**. Listi yfir skjalasnið myndboða birtist.
3. Skrunað er með [niður] eða [upp] að viðeigandi skjalasniði myndboðanna og stutt á **Velja** til að skoða þau.

   **Til athugunar:** myndsnið eru með sjálfgefna titla en þeim má breyta með því að velja kostinn *Endurskíra* og færa inn nýja titilinn.
4. Myndin er sett inn í boðin með því að styðja á **Nota**. Þegar myndin hefur verið hengd við boðin birtist textinn *Mynd viðhengi* og valmyndin *Skrifa skilaboð* kemur aftur upp. Teiknið [tákn] táknar að myndin hefur verið fest. Fjöldi stafa sem hægt er að rita í myndboð fer eftir stærð myndarinnar.
5. Ef skoða á myndina og textann saman áður en boðin eru send er stutt á **Valkostir** skrunað að *Skoða áður* og stutt á **Velja**.

   Ef á að breyta myndinni sem hengd var við er kosturinn *Skipta um mynd* valinn. Ef á að fjarlægja viðhengdu myndina er kosturinn *Burt m. myndina* valinn.
6. Ef senda á boðin er stutt á **Valkostir** og kosturinn *Senda* valinn.

- Bent er á að hver myndboð eru gerð úr nokkrum textaboðum. Þess vegna kann að vera dýrara að senda ein myndboð en ein textaboð.
- Þar sem myndboð eru vistuð í minni símans er ekki hægt að skoða þau ef SIM-kortið er notað í öðrum síma.

## Texta- og myndboð lesin og skoðuð

Þegar texta- eða myndboð hafa borist birtist vísirinn ✉ og fjöldi nýrra boða á eftir *skilaboð móttekin* á skjánum.

1. Stutt er á **Sýna** til að skoða boð eða á **Hætta** ef skoða á boðin síðar.

   **Ef lesa á textaboðin síðar:**

   Í valmyndinni *Skilaboð* er skrunað að *Innhólf* og stutt á **Opna**. Skrunað er að viðeigandi boðum og stutt á **Velja** til að lesa þau. Ólesin textaboð eru gefin til kynna með teikninu ✉ framan við þau. Boðin eru geymd í möppunni *Innhólf* þegar búið er að lesa þau.

   **Ef skoða á myndboðin síðar:**

   Í valmyndinni *Skilaboð* er skrunað að *Innhólf* og stutt á **Opna**. Skrunað er að viðeigandi boðum og stutt á **Velja** til að skoða þau. Myndboð sem ekki hafa verið skoðuð eru gefin til kynna með teikninu ▣ framan við þau.

2. Þegar verið er að lesa og skoða boðin er stutt á **Valkostir** til að skruna listann yfir valkostina og stutt er á **Velja** við auðkennda liðinn til að velja hann.

   Á listanum eru valkostir um að eyða, svara, framsenda, flytja, breyta og endurnefna boðin sem verið er að lesa. Einnig er hægt að breyta leturstærð boðanna sem verið er að lesa.

   - Bent er á að þegar myndboðum er svarað afritast aðeins textinn í svarið. Þegar myndboðum er breytt er aðeins hægt að breyta textanum, ekki myndinni.
   - Ef vista á myndina til að nota síðar er kosturinn *Vista mynd* valinn: myndin er vistuð í möppuna *Skjalasnið*.

Einnig er hægt að afrita boðin í dagbók símans sem minnismiða (*Afrita í dagbók*). Valkosturinn *Sjá nánar* sýnir til dæmis nafn sendanda og símanúmer, miðstöðina sem sent er um, dagsetningu og tíma móttöku. Ef á að taka númer úr boðunum er valkosturinn *Taka númer* notaður.

## Boðum svarað

1. Farið er í boðin sem á að svara og stutt á **Valkostir**, skrunað að *Svara* eða *Svara (texti)* ef verið er að svara myndboðum og stutt á **Velja**.
2. Skrunað er að einni af eftirfarandi svargerðum og stutt á **Velja**.
   - *Tómur skjár*. Upprunaleg boð fylgja ekki með í svarinu.
   - *Svara bréfi*. Upprunaleg boð fylgja með í svarinu.
   - Stöðluð svör, til dæmis *Já*, *Takk* eða *Til hamingju*. Aðeins staðlaða svarið sem valið er fer í svarið. Staðlaða svarinu má líka breyta og bæta við það texta.
   - *Skjalasnið*. Skjalasniðið sem var valið er í upphafi svarsins. Hægt er að breyta skjalasniðinu og bæta við viðbótartexta.
3. Ef valið er *Skjalasnið* birtist listinn yfir skjalasnið. Á honum er til dæmis *Hringdu* eða *Sé þig í*. Skrunað er að viðeigandi skjalasniði og stutt á **Velja**.
4. Svar er ritað og stutt á **Valkostir**, skrunað að *Senda* og stutt á **Velja**. Stutt er á **Í lagi** til að senda boðin á númerið sem birtist.

## Sérstakir valkostir sendingar

### Boð send til margra viðtakenda

Hægt er að senda boð til margra viðtakenda. Þegar svarboð eru send er kosturinn *Frams. á marga* valinn í *Framsending* og þegar boð eru skrifuð og þau send er valið *Senda á marga* í *Valkostir*.

1. Þegar boðin hafa verið skrifuð, stutt á **Valkostir** og er skrunað að *Valkostir* og stutt á **Velja**.
2. Skrunað er að *Senda á marga* og stutt á **Velja**. Listinn yfir nöfn birtist.
3. Skrunað er að viðeigandi nafni og stutt á **Í lagi** til að senda boðin.
4. Þá er næsti viðtakandi valinn og stutt á **Í lagi**.
5. Þegar boðin hafa verið send til allra sem eiga að fá þau er stutt á **Búið**.

### Skilaboð send með SMS-sniði

Hægt er að senda eða framsenda boð, til dæmis í bréfsímanúmer, með valkostinum *SMS-snið* í *Valkostir* eða í *Framsending* ef netið styður slíkt.

Ef senda á boð í bréfsíma þarf til dæmis að byrja á því að skilgreina sniðið í stillingum fyrir símbréf. Sjá SMS-valmynd á bls. 66.

1. Þegar boðin hafa verið rituð er stutt á **Valkostir** og skrunað til að velja *Valkostir* og stutt á **Velja**.
2. Skrunað er að *SMS-snið* og stutt á **Velja**.
3. Skrunað er að sniðinu sem skilgreint var fyrir símbréf og stutt á **Velja**.
4. Bréfsímanúmerið er fært inn eða sótt í símaskrána og stutt á **Í lagi**.



**Ábending:** Ef bréfsímanúmerið er vistað í stillingunni *Númer aðalviðtakanda* fyrir sniðið sem var valið leggur síminn sjálfkrafa til það númer. Stutt er á **Í lagi** til að nota númerið.

## Boðin skipulögð

Öllum boðum sem geymd eru í boðaminni símans er raðað í möppur.

### Möppurnar Innhólf og Úthólf

Þegar búið er að lesa móttekin texta- eða myndaboð vistast boðin sjálfkrafa í möppunni *Innhólf* í valmyndinni *Skilaboð*.

Þegar boð sem hafa verið skrifuð eða send eru vistuð fara þau í möppuna *Úthólf*.

**Til athugunar:** Blikkandi teiknið ✉ gefur til kynna að boðaminnið sé á þrotum. Eyða þarf einhverjum af eldri boðunum áður en hægt er að senda eða taka á móti nýjum boðum.

### Safnmappa og möppur fyrir notanda

Ef tryggja þarf að ekki verði skrifað yfir tiltekin boð þegar boðaminnið er fullt eða ef skipuleggja á boðin betur er hægt að færa einhver af boðunum í möppuna *SMS-safn* eða bæta við nýjum möppum í valmyndinni *Skilaboð* og vista boð þar.

**Möppu bætt við:**

1. Í valmyndinni *Skilaboð* er skrunað að *Mínar möppur* og stutt á **Opna**.
2. Stutt er á **Valkostir**, skrunað að *Ný mappa* og stutt á **Velja**. Heiti nýju möppunnar er fært inn og stutt á **Í lagi**.

**Efni eytt úr einni möppu eða öllum:**

1. Í valmyndinni *Skilaboð* er skrunað að *Eyða öllum* og stutt á **Opna**.
2. Annaðhvort eftirtalinna atriða er gert:

   Skrunað er að möppunni sem geymir efnið sem á að eyða og stutt á **Í lagi**. Síðar er stutt á **Í lagi** þegar textinn *Eyða öllum skilaboðum úr möppu?* birtist.

Skrunað er að *Öllum lesnum* og stutt á **Í lagi** til að eyða öllum lesnum boðum úr öllum möppunum. Síðan er stutt á **Í lagi** þegar textinn *Eyða öllum skilaboðum úr möppu?* birtist.

**Möppu eytt:**

1. Í valmyndinni *Skilaboð* er skrunað að *Mínar möppur* og stutt á **Opna**.
2. Skrunað er að möppunni sem á að eyða og stutt á **Valkostir**.
3. Skrunað er að *Eyða möppu* og stutt á **Velja**.

   **Til athugunar:** Þegar möppu er eytt eyðast einnig öll boð sem í henni eru.

**Texta- eða myndboð færð eða þeim eytt:**

1. Í viðeigandi boðum er stutt á **Valkostir**.
2. Skrunað er að *Færa* eða *Eyða* og stutt á **Velja**.
3. Ef færa á boð er skrunað að völdu möppuheiti og stutt á **Í lagi**.

## SMS-valmynd

**Farið í SMS-valmyndarlista:**

1. Í valmyndinni *Skilaboð* er skrunað að *SMS-stillingar* og stutt á **Velja**.
2. Skrunað er að stillingunni sem á að breyta og stutt á **Velja**.

Tvær valmyndir fyrir skilaboð eru í símanum, önnur fyrir sérsnið en hin á við öll skilaboð.

Snið fyrir boð eru stillingar sem nauðsynlegar eru til að senda boð. Í símanum eru notaðar stillingarnar *Númer miðstöðvar*, *Skilaboð send sem* og *Gildistími* í valmyndinni *SMS-stillingar* sem er snið sjálfgefið fyrir boð nema annað sé valið þegar boð eru send.

Þegar til dæmis boðum er svarað og valið er *Senda* eða þegar boð eru rituð og valið er *Senda* er sjálfgefið snið á SMS notað sjálfkrafa.

Einnig er hægt að senda boð í bréfsíma eða á netfang (ef þjónustuveitan styður það) ef snið fyrir boð hefur verið skilgreint fyrir símbréf eða tölvupóst. Sjá einnig Sérstakir valkostir sendingar á bls. 64.

## Stillingar sem eiga við öll boð

Eftirfarandi boðastillingar í valmyndinni *SMS-stillingar* eru fyrir öll útsend boð, án tillits til þeirra stillinga sem voru valdar.

- *Tilkynningar um skil*. Hægt er að fara fram á að sendingarskýrslur um boð séu send um netið (sérþjónusta). Tilkynning um skil er merkt með i fyrir framan haus boðanna.
- *Svar frá sömu SMS-miðstöð*. Þessi sérþjónusta gerir viðtakendum boða kleift að senda svar um sömu miðstöð.

## Snið á SMS[1]

Í undirvalmyndinni *Snið á SMS* í *SMS-stillingar* er hægt að breyta stillingum fyrir ákveðið boðsnið[2]. Öll boðsnið hafa eigin undirvalmynd með eftirtöldum aðgerðum:

- *Númer miðstöðvar*. Í þessari undirvalmynd er hægt að vista símanúmer miðstöðvarinnar sem þarf til að senda boð.
- *Skilaboð send sem*. Fyrir venjuleg boð er kosturinn *Texti* valinn, fyrir símbréf er kosturinn *Símbréf* valinn o.s.frv. Bent er á að aðeins er hægt að nota valkostina *Símbréf*, *Tölvupóstur* og *Símboð* ef í boðþjónustunni felst möguleikinn á að breyta sniði boða. Þjónustuveitan veitir upplýsingar um hvort möguleiki er á þessum aðgerðum.

1. Valmyndin fyrir snið á SMS birtist aðeins ef SIM-kortið styður fleiri en einn hóp stillinga. Hver stillingahópur fær eigin undirvalmynd og getur heitið hvað sem er.
2. Fjöldi stillingahópa fer eftir því hve marga hópa SIM-kortið styður.

- *Gildistími* Þessi sérþjónusta gerir kleift að stilla geymslutíma boða í miðstöðinni meðan reynt er að koma þeim til skila.
- *Númer aðalviðtakanda*. Númerið sem er vistað í þessum valkosti er lagt til sem aðalnúmer fyrir boðasendingar þegar þetta snið er valið á SMS.
- *Nafn á SMS-sniði* Gerir kleift að endurskíra hvert snið á SMS.

## Símtalaskrá (valmynd 2)



Í þessari valmynd er hægt að skoða og eyða skráðum símanúmerum og skoða lengd símtala og kostnað við þau (sérþjónusta).

Í valkostunum fyrir símtöl sem ekki er svarað, símtölum sem er svarað eða númer sem hringt er í er hægt að:

- hringja í númerið
- vista númerið í símaskránni
- skoða dagsetningu og tíma símtals
- skoða, breyta eða eyða númer af listanum.

**Til athugunar:** Móttekin símtöl og símtöl sem ekki er svarað eru aðeins skráð ef netið styður CLI (Calling Line Identification), kveikt er á símanum og hann er innan þjónustusvæðis.

### Hringingum ósvarað (valmynd 2-1)

Með þessari aðgerð er hægt að skoða lista yfir síðustu tíu hringingar sem ekki var svarað (sérþjónusta).



**Ábending:** Þegar boð birtast um hringingu sem ekki var svarað er stutt á **Símaskrá** til að birta lista yfir símtöl sem ekki var svarað. Stutt er á ef hringja á strax.

## Hringt var frá (valmynd 2-2)

Með þessari aðgerð er hægt að skoða lista yfir síðustu tíu símanúmer sem var svarað (sérþjónusta).

## Hringt var í (valmynd 2-3)

Í þessari undirvalmynd er hægt að skoða síðustu tíu símanúmer sem hringt var í eða reynt að hringja í.



**Ábending:** Ef bregða á upp lista yfir númer sem síðast voru valin í skyndi er stutt á einu sinni þegar síminn er í biðham.

## Eyða nýlegum símtölum (valmynd 2-4)

Í þessari valmynd er hægt að eyða öllum símanúmerunum sem skráð eru í undirvalmyndunum *Hringingum ósvarað*, *Hringt var frá* og *Hringt var í*. Bent er á að ekki er hægt að afturkalla aðgerðina.

Þessum símanúmerum er einnig eytt í eftirtöldum tilvikum:

- Ef kveikt er á símanum og ísett SIM kort er ekki eitt af fimm síðustu SIM kortum sem notuð hafa verið í símanum.
- Þegar stillingunni Öryggisstig er breytt (valmynd 4-6-5).

## Lengd símtals (valmynd 2-5)

Með þessari aðgerð er hægt að skoða lengd símtala í klukkustundum, mínútum og sekúndum. Einnig er hægt að núllstilla teljarana með aðgerðinni *Núllstilla teljara* (valmynd 2-5-5). Þörf er á öryggisnúmeri til að núllstilla teljara. Sjá Aðgangsnúmer á bls. 102.

 



**Til athugunar:** Tíminn sem birtist á reikningum þjónustuveitunnar fyrir hringingar kann að vera breytilegur eftir eiginleikum símkerfisins, sléttun fjárhæða við gerð reikninga og öðru slíku.

### Kostnaður við símtöl (valmynd 2-6)

Með þessari sérþjónustu er hægt að kanna kostnað við síðasta símtal eða öll símtöl. Símtalskostnaðurinn er sýndur sérstaklega fyrir hvert SIM-kort. Hægt er að takmarka kostnaðinn við tiltekin skref eða gjaldmiðil með valkostinum *Kostn. hámörk*. Hægt er að hringja og svara símtölum ef ekki er farið yfir tilgreint kostnaðarhámark. Fjöldi ónýttra skrefa er sýndur í biðham. Ef til vill þarf PIN2-númerið til að stilla kostnaðarhámarkið. Hægt er að stilla símann svo að ónýttur taltími (miðað við kostnaðarhámark) sé sýndur í skrefum eða gjaldmiðli með valkostinum *Sýna kostnað í*. Ef til vill þarf PIN2-numerið til að velja gjaldmiðil eða skref. Þjónustuveitan veitir upplýsingar um skrefagjald. Með valkostinum *Núllstilla teljara* er hægt að endurstilla skrefateljarana. Þörf er á PIN2-númerinu til að núllstilla teljarana. Sjá Aðgangsnúmer á bls. 102.



**Til athugunar:** Þegar ekki eru til fleiri hleðslu- eða gjaldmiðilseiningar er aðeins hægt að hringja í neyðarnúmerið 112.

Tíminn sem birtist á reikningum þjónustuveitunnar fyrir hringingar kann að vera breytilegur eftir eiginleikum símkerfisins, sléttun fjárhæða við gerð reikninga og öðru slíku.

## Sérsnið (valmynd 3)



Í valmyndinni *Sérsnið* er hægt að stilla og sérsníða tónval fyrir mismundandi atburði, umhverfi og viðmælendahópa.

## Notandasnið gerð virk

Ef breyta á sniðinu sem verið er að nota (*Almennt* sem sjálfgildi) er stutt snöggt á takkann (í biðham). Síðan er skrunað með eða að sniðinu sem á að gera virkt og stutt á **Í lagi**.



**Ábending:** Stutt er snöggt á takkann (í biðham). Þá er stutt á takkann sem samsvarar númeri sniðsins og beðið í þrjár sekúndur. Ef til dæmis á að gera sniðið *Hljótt* virkt er fyrst stutt snöggt á takkann og síðan á 2abc.

## Sérsnið

1. Stutt er á **Valmynd**, skrunað að *Sérsnið* og stutt á **Velja**. Eftirfarandi listi yfir valkosti birtist: *Almennt*, *Hljótt*, *Fundur*, *Utandyra*, *Símboði*, *Handfrjálst*, *Heyrnartól*.

   **Til athugunar:** *Handfrjálst* og *Heyrnartól* birtast ekki á listanum yfir *Sérsnið* nema bílbúnaðurinn CARK-91 eða heyrnartólið HDC-9P séu tengd símanum. Hins vegar verða stillingar fyrir *Handfrjálst* og *Heyrnartól* áfram í valmyndinni að tengingu lokinni.

2. Skrunað er að viðeigandi sniði og stutt á **Valkostir**.
3. Valið er *Eigið val* og stutt á **Í lagi**.

   **Til athugunar:** Ef valið er *Gera virkt* er valda sniðið notað, ekki er hægt að sérsníða það á þennan hátt.

   Þegar síminn er tengdur bílbúnaðinum CARK-91eða heyrnartólinu HDC-9P er aðgerðin *Gera virkt* ekki fyrir hendi.

4. Skrunað er að stillingunni sem á að sérsníða og stutt á **Velja**.
5. Skrunað er að viðeigandi valkosti og stutt á **Í lagi**.

## Stillingar sem hægt er að sérsníða

Þegar valkosturinn *Eigið val* hefur verið valinn er hægt að sérsníða stillingar fyrir valið snið:

- *Velja hringingu* til að skilgreina hvernig látið er vita um hringingar. Valkostirnir eru: *Hringja*, *Hækkar*, *Ein hringing*, *Eitt bíp* og *Slökkt*.

  Enginn hringitónn eða píp heyrist þegar *Velja hringingu* er stillt á *Slökkt*. Þessi hljóðlausi hamur er gefinn til kynna með .
- *Hringitónn* til að stilla hringitón símtala.



**Ábending:** Hægt er að geyma fimm gerðir hringinga samtímis á listanum yfir hringingar ef tekið er á móti þeim um IR eða OTA. Ef tekið var á móti hringitón um IR eða OTA og ekkert rými er fyrir þennan hringitón á listanum er hægt að skipta út einni gerðinni með nýjum hringitón.

- *Styrkur hringingar* til að hækka og lækka hringitón og tónmerki um boð.
- *Titringur* síminn látinn titra við hringingar og þegar tekið er á móti boðum. Titringurinn er ekki virkur þegar síminn er tengdur við hleðslutæki eða í borðstandi.
- *Hringing* til að stilla hringitón fyrir boð.
- *Takkatónar* hljóðstyrkur stilltur fyrir takkatóna eða hann tekinn af.
- *Aðvörunarhljóð* viðvörunartónar gerðir virkir eða óvirkir. Þegar þeir eru virkir sendir síminn til dæmis frá sér viðvörunartón þegar rafhlaða hans er að tæmast.
- *Hringir frá þessum hópum* síminn stilltur þannig að hann hringir aðeins þegar um er að ræða símanúmer í ákveðnum viðmælendahópi. Skruntakkarnir  eða  eru notaðir til að opna viðeigandi hóp og stutt á **Merkja**.

Sjá Hringitónn og mynd sett upp fyrir viðmælendahóp og hópi gefið nýtt heiti á bls. 49 ef stilla á hringitón og mynd fyrir viðmælendahóp.

- *Sjálfvirkt svar* (eingungis í sniðunum *Handfrjálst* og *Heyrnartól*) til að stilla símann svo að hringingum sé svarað eftir fáeinar sekúndur.

  **Til athugunar:** Aðeins er hægt að nota þessa aðgerð þegar síminn er tengdur við heyrnartól eða bílbúnað sem tengdur er kveikjulás bílssins, og svissað á.
- *Ljós* (aðeins í sniðinu *Handfrjálst*) til að stilla ljós á skjá og tökkum á *Kveikja* eða *Sjálfvirkt*.

### Snið endurnefnd

Hægt er að endurskíra snið að vild, að undanskildu sniði fyrir *Almennt*, *Handfrjálst* og *Heyrnartól*.

1. Stutt er á **Valmynd**, skrunað með ⌄ eða ⌃ að *Sérsnið* og stutt á **Velja**.
2. Skrunað er að sniðinu sem á að endurskíra og stutt á **Valkostir**, þá skrunað að *Endurskíra* og stutt á **Í lagi**.
3. Nýja nafnið er fært inn og stutt á **Í lagi**. Stafir færðir inn, sjá Nöfn og númer vistuð á bls. 35.

## Stillingar (valmynd 4)



### Vekjaraklukka (valmynd 4-1)

Hægt er að stilla vekjaraklukku símans á ákveðinn tíma í valmyndinni *Vekjaraklukka* (valmynd 4-1). Stutt er á **Valmynd** til að fara í þessa undirvalmynd (í biðham), skrunað að *Stillingar* og stutt á **Velja**.

Í vekjaraklukkunni er notað sama tímasniðið og í klukkunni sjálfri: 12 eða 24 klukkustundir. Í biðham sýnir vísirinn í hausnum að vekjaraklukkan sé stillt á *Virk*. Vekjaraklukkan er virk þó að slökkt sé á símanum.

**Vekjaraklukkan hringir**

Síminn gefur frá sér tilkynningartón. Meðan á því stendur birtist *Vekjari!* á skjánum og ljós blikkar á símanum.

Stutt er á **Hætta** til að slökkva á vekjaraklukkunni. Ef síminn er látinn hringja í mínútu eða ef stutt er á **Kríublund** slokknar á vekjaraklukkunni í nokkrar mínútur þar til hringir aftur.

**Til athugunar:** Vekjaraklukkan hringir þótt slökkt sé á símanum. Ef stutt er á **Hætta** er spurt hvort opna eigi símann fyrir símtölum. Stutt er á **Já** til að skrá það inn eða **Nei** til að hafa áfram slökkt á símanum.



**Til athugunar:** Ekki má kveikja á símanum þar sem notkun þráðlausra síma er bönnuð eða þar sem hún kann að valda truflunum eða hættu.

## Klukka (valmynd 4–2)

Klukka er í símanum. Þegar síminn er stilltur svo að klukkan sjáist birtist hún efst í hægra horninu á skjánum þegar síminn er í biðham.

Í þessari valmynd er hægt að stilla klukkuna á *Virk* eða *Óvirk*, stilla hana eða velja annaðhvort tímasniðið 12 stundir eða 24 stundir.

**Klukkan stillt:**

1. Í valmynd 4-2 er stutt á **Velja**.
2. Skrunað er að *Stilla tíma* og stutt á **Velja**.
3. Réttur tími er færður inn og stutt á **Í lagi**.

Klukkan er einnig notuð í eftirtöldum aðgerðum: *Skilaboð* (valmynd 1), *Símtalaskrá* (valmynd 2), *Vekjaraklukka* (valmynd 4-1) og *Dagbók* (valmynd 8).

**Til athugunar:** Ef rafhlaðan er fjarlægð úr símanum í lengri tíma þarf ef til vill að stilla klukkuna aftur.

## Símtalsstillingar (valmynd 4-3)

### Lyklaborðssvar (valmynd 4-3-1)

Þegar þessi aðgerð er stillt á *Óvirkt* er hægt að svara hringingu með því að styðja snöggt á einhvern takka, að undanskildum og .

### Sjálfvirkt endurval (valmynd 4-3-2)

Þegar þessi stilling er *Virkt* hringir síminn allt að tíu sinnum þegar reynt hefur verið að hringja árangurslaust.

### Hraðval (valmynd 4-3-3)

Þegar þessi aðgerð er stillt á *Virkt* er hægt að hringja í nöfn og símanúmer sem hefur verið úthlutað á hraðvalstakkana 2abc til 9wxyz með því að styðja á og halda niðri samsvarandi tölutakka. Bent er á að hringt er í talhólfið ef stutt er á 1 og takkanum haldið niðri.

### Biðþjónusta fyrir símtöl (valmynd 4-3-4)

Þegar þessi sérþjónusta er gerð virk birtast boð um hringingu meðan símtal stendur yfir. Sjá Símtal í bið á bls. 31.

### Lína til að hringja (valmynd 4-3-5)

SIM-kortið er hægt að nota með tveimur skráðum númerum, eða tveimur símalínum. Hins vegar er um sérþjónustu að ræða og aðgerðin er aðeins virk ef SIM-kortið styður hana. Símafyrirtæki eða þjónustuveita veitir upplýsingar um þær aðgerðir sem bjóðast.

Í valmynd 4-3-5 er hægt að velja viðeigandi línu sem nota á til að hringja. Hins vegar er hægt að svara símtölum á báðum línum, án tillits til línunnar sem er valin.

Þetta er ekki hægt ef lína 2 er valin og ekki er fyrir hendi áskrift að þessari sérþjónustu. Hægt er að koma í veg fyrir að þessi aðgerð sé notuð með því að velja *Læsa línunni* af listanum yfir valkosti. Farið er aftur á línu 1 ef stutt er á og takkanum haldið niðri í biðham.

## Samantekt eftir símtal (valmynd 4-3-6)

Þegar þessi aðgerð er stillt á *Virkar* birtist snöggvast lengd síðasta símtals og kostnaður við það (sérþjónusta).

## Símbréf eða gagnasending (valmynd 4-3-7)

Í þessari valmynd er hægt að hringja í bréfsíma eða senda gögn. Áður en þessi aðgerð er notuð þarf að gera IR-tengi símans virkt í valmynd 9 eða tengja símann við samhæft tæki (til dæmis bréfsíma).

## Númerabirting (valmynd 4-3-8)

Með þessari sérþjónustu er hægt að stilla símanúmer notanda svo að það sé birt eða hulið þeim sem hringt er í. Með *Skv. samningi* er síminn stilltur á sjálfgildi, *Virk* eða *Óvirk* eftir samkomulagi við þjónustuveitu.

**Til athugunar:** Tölusetning valmynda fyrir *Samantekt eftir símtal*, *Símbréf eða gagnasending* og *Númerabirting* er breytileg. Ef SIM-kortið styður ekki aðgerðina *Lína til að hringja*, er *Samantekt eftir símtal* valmynd númer 4-3-5, *Símbréf eða gagnasending* valmynd 4-3-6 og *Númerabirting* 4-3-7.

## Símastillingar (valmynd 4-4)

### Tungumál (valmynd 4-4-1)

Í þessari valmynd er hægt að velja tungumál fyrir skjátextann. Ef valin er stillingin *Sjálfgefið val* fer tungumálið eftir SIM-kortinu sem er notað.

Tungumálastilling hefur einnig áhrif á tíma- og dagsetningarsnið eftirtalinna aðgerða: *Vekjaraklukka* (valmynd 4-1), *Klukka* (valmynd 4-2), *Dagbók* (valmynd 8).

### Uppl. um endurvarpa (valmynd 4-4-2)

Þessi sérþjónusta gerir kleift að stilla símann á þá leið að gefið er til kynna ef hann er notaður á farsímaneti sem byggist á MCN-tækni (Micro Cellular Network).

### Opnunarkveðja (valmynd 4-4-3)

Í þessari valmynd er hægt að skrifa boð (með allt að 44 stöfum) sem birtast snöggvast þegar kveikt er á símanum.

### Val á neti (valmynd 4-4-4)

Hægt er að velja netið sem tengst er við annaðhvort sjálfvirkt eða handvirkt.

Í hamnum *Sjálfvirkt val* velst sjálfkrafa eitt af þeim farsímanetum sem tiltæk eru á viðkomandi svæði.

Í hamnum *Handvirkt* er birtur listi yfir tiltæk net sem hægt er að velja úr ef samkomulag er við símafyrirtæki. Ef ekkert slíkt samkomulag er birtist textinn *Enginn aðgangur* og velja verður annað net. Síminn verður í handvirkum ham þar til sjálfvirkur hamur er valinn eða annað SIM-kort sett í símann.

### Staðfesta SIM-aðgerð (valmynd 4-4-5)

Sjá SIM-þjónusta (valmynd 11) á bls. 97.

## Stillingar fyrir samskipti (valmynd 4-5)

### Upplýsingaþjónusta (valmynd 4-5-1)

Með þessari sérþjónustu er hægt að taka á móti boðum um mismunandi efni (til dæmis veður og umferð) frá þjónustuveitunni. Þjónustuveitan veitir upplýsingar um tiltæk efni og tengd efnisnúmer.

Ef stillt er á *Kveikt* berast boð um virk efnisatriði. Hægt er að breyta listanum með efnisatriðunum og merkja að efnisatriði sé virkt eða óvirkt.

*Efnisval* sækir lista yfir tiltæk efnisatriði á netið. Með því að velja *Efnisyfirlit* er hægt að bæta við efnisatriðum á listann. Valið er númer efnisatriðisins og heiti þess. Einnig er hægt að breyta listanum eða eyða honum.

Valið er *Tungumál* til að stilla tungumálið fyrir boðin. Aðeins eru birt boð á því tungumáli sem var valið.



**Ábending:** Hægt er að vista boð frá upplýsingaþjónustunni í möppunni *SMS-safn* í einni af möppum notanda.

### Hlusta á talboð (valmynd 4-5-2)

Þegar farið er í þessa undirvalmynd hringir síminn sjálfkrafa í símanúmer talhólfs sem vistað er í valmynd 4-5-3. Bent er á að talhólfið er sérþjónusta og ef til vill þarf að gerast áskrifandi áður en það er notað.



**Ábending:** Ef hringja á í talhólfið í flýti er stutt á [1] og takkanum haldið niðri í biðham.

Þegar **Hlusta á** birtist á skjánum fyrir ofan vinstri valtakkann er stutt á takkann til að hringja í talhólfsnúmerið.

### Númer talhólfs (valmynd 4-5-3)

Í þessari undirvalmynd er hægt að vista og breyta talhólfsnúmerinu. Talhólf er sérþjónusta. Nánari upplýsingar og númer talhólfsins fást hjá þjónustuveitu.

### Þjónustuskipun (valmynd 4-5-4)

Í þessari undirvalmynd er hægt að senda beiðni um þjónustu (eða USSD-skipanir) til þjónustuveitunnar, til dæmis skipanir til að gera sérþjónustu virka. Nánari upplýsingar fást hjá þjónustuveitunni.

## Öryggisstillingar (valmynd 4-6)

Í símanum er alhliða öryggiskerfi sem kemur í veg fyrir óheimila notkun á símanum eða SIM-kortinu. Sjá einnig Aðgangsnúmer á bls. 102.

### Krefjast PIN-númers (valmynd 4-6-1)

Hægt er að verja SIM-kortið með því að stilla símann þannig að beðið sé um PIN-númer þegar kveikt er á honum. Þetta er gert með því að stilla valmyndina *Krefjast PIN-númers* á *Virkt*. Þörf er á PIN-númeri til að gera þessa aðgerð virka. PIN-númerið fylgir yfirleitt SIM-kortinu. Ef svo er ekki skal hafa samband við þjónustuveituna. Hægt er að breyta PIN-númerinu í valmyndinni *Breyta aðgangslyklum* (4-6-6).

**Til athugunar:** Ef rangt PIN-númer er fært inn þrisvar í röð læsist SIM-kortið og færa þarf inn PUK-númerið til að opna SIM-kortið. Sjá Aðgangsnúmer á bls. 102.

**Til athugunar:** Á sumum SIM-kortum er ekki hægt að gera kröfu um PIN-númer óvirka.

### Útilokunarþjónusta (valmynd 4-6-2)

Með þessari sérþjónustu er hægt að takmarka hringingar í símanum. Krafist er útilokunarlykilorðs fyrir þessa aðgerð.

Hægt er að velja eina af eftirfarandi takmörkunum:

- *Hringingar úr símanum* til að útiloka allar hringingar úr símanum.
- *Símtöl til útlanda* til að útiloka símtöl til útlanda frá heimalandi.
- *Símtöl til útlanda ef ekki til heimalands* til að útiloka símtöl milli landa nema símtöl heim frá útlöndum.
- *Símtöl inn* til að útiloka allar hringingar í símann.
- *Símtöl inn þegar erlendis* til að útiloka að hringt sé í símann þegar notandinn er staddur erlendis.

Fyrir ofangreindar stillingar er hægt að velja *Gera virkt*, *Fella úr gildi* eða *Ath. stöðu* (til að sýna útilokaðar símtalsgerðir).

Í undirvalmyndinni *Fella allar útilokanir úr gildi* er hægt að hætta við allar útilokanir á símtölum.



**Til athugunar:** Þegar hringilokun er í gildi er eftir sem áður hægt að hringja í tiltekin neyðarnúmer í sumum símkerfum (t.d. 112 eða annað opinbert neyðarnúmer).

## Fast númeraval (valmynd 4-6-3)

Þessi þjónusta takmarkar hringingar við valin símanúmer ef þessi aðgerð er studd af SIM-kortinu. Ef vista á númer á listanum eða breyta þeim þarf PIN2-númerið.



**Til athugunar:** Þegar fastur valkostur við númeraval gildir er eftir sem áður hægt að hringja í tiltekin neyðarnúmer í sumum símkerfum (t.d. 112 eða annað opinbert neyðarnúmer).

## Lokaður notendahópur (valmynd 4-6-4)

Þessi sérþjónusta tilgreinir hóp einstaklinga sem hægt er að hringja í og taka við símtölum frá. *Aðalhópur* stillir símann aftur svo að notendahópur sem eigandi SIM-kortsins hefur gert samkomulag

um við þjónustuveitu verður notaður. Lokaður notendahópur er gefinn til kynna með teikninu . Símafyrirtæki eða þjónustuveita veitir nánari upplýsingar.



**Til athugunar:** Þegar hringingar eru takmarkaðar við lokaðan notendahóp er eftir sem áður hægt að hringja í tiltekin neyðarnúmer í sumum símkerfum (t.d. 112 eða annað opinbert neyðarnúmer).

## Öryggisstig (valmynd 4-6-5)

Hægt er að verja símann gegn því að hann sé notaður í heimildarleysi með öryggisnúmerinu (öryggisnúmer). Þetta er gert með því að stilla valmyndaraðgerðina *Öryggisstig* á *Sími* eða *Minni*.

- Þegar stillt er á *Sími* biður síminn um öryggisnúmerið þegar SIM-kort sem ekki er eitt af fimm SIM-kortum sem síðast voru í notkun er sett í símann.
- Þegar stillt er á *Minni* þarf öryggisnúmerið til að opna símaskrána í símanum.

Einnig þarf öryggisnúmer ef nota á ýmsar aðrar aðgerðir, til dæmis þegar hreinsa á símaskrána eða endurheimta upprunalegar stillingar símans.

Stilling framleiðanda á öryggisnúmerinu er 12345. Númerinu er breytt í valmyndinni 4-6-6, *Breyta aðgangslyklum*. Nýja númerinu er haldið leyndu og á öruggum stað annars staðar en með símanum.

**Til athugunar:** Ef rangt öryggisnúmer er fært inn fimm sinnum í röð er síminn læstur og rétt öryggisnúmer ekki samþykkt næstu fimm mínúturnar.



**Til athugunar:** Þegar skipt er um öryggisstig er hreinsað út af öllum listum yfir nýleg símtöl.

## Breyta aðgangslyklum (valmynd 4-6-6)

Í þessari valmynd er hægt að breyta eftirfarandi aðgangsnúmerum: öryggisnúmerinu, PIN-númerinu, PIN2-númerinu og útilokunarlykilorðinu. Þessi númer mega aðeins vera tölustafir á bilinu 0 til 9. Í

 

símanum er beðið um að fært sé inn núgildandi númer og nýja númerið. Einnig er beðið um staðfestingu á nýja númerinu og er það fært inn aftur.



**Til athugunar:** Forðast skal að nota aðgangsnúmer sem líkist neyðarnúmeri, t.d. 112, til að komast hjá því að neyðarnúmer sé valið fyrir slysni.

### Setja upphafsstillingar (valmynd 4–7)

Hægt er að endurstilla einhverjar valmyndarstillingar í upprunaleg gildi þeirra. Öryggisnúmerið er nauðsynlegt fyrir þessa aðgerð.

## Flutningar (valmynd 5)



Með þessari sérþjónustu er hægt að beina hringingum annað (til dæmis í talhólfsnúmerið). Nánari upplýsingar fást hjá þjónustuveitu.

Í valmynd 5 er hægt að velja á milli eftirfarandi leiða til að flytja símtöl:

- *Flytja öll símtöl*. Öll símtöl eru flutt og enginn hringitónn heyrist þegar hringt er í símann.
- *Flytja þegar síminn er á tali*. Símtöl eru flutt ef það er á tali.



**Ábending:** Ef stillt er á *Flytja þegar síminn er á tali* eru símtöl, sem er hafnað, einnig flutt.

- *Flytja þegar enginn svarar*. Símtöl eru flutt ef ekki er svarað eftir tiltekinn tíma.
- *Flytja ef slökkt er eða síminn utan svæðis*. Símtöl eru flutt þegar slökkt er á símanum eða hann er utan þjónustusvæðis.
- *Flytja ef samband næst ekki*. Símtöl eru flutt ef númerið er upptekið, þegar ekki er svarað, slökkt er á símanum eða hann er utan þjónustusvæðis.

- *Flytja öll símbréf*. Allar hringingar í bréfsíma eru fluttar
- *Flytja allar gagnasendingar*. Allar gagnasendingar eru fluttar.

Kosturinn *Gera virkt* er valinn til að stilla á símtalsflutning ef stuðningur er fyrir því á netinu, *Fella úr gildi* til að taka stillinguna af eða *Ath. stillingar* til að kanna hvort aðgerðin sé virk eða ekki.

Ef hætta á við símtalsflutninga er undirvalmyndin *Fella alla símtalsflutninga úr gildi* valin.



**Ábending:** Teiknið er sýnilegt í biðham þegar búið er að stilla á *Flytja öll símtöl*. Ef um er að ræða tvær símalínur er teiknið fyrir að símtalsflutning fyrir fyrri línuna og fyrir þá síðari er það .

# Leikir (valmynd 6)



Í símanum eru þrír leikir: *Snake II*, *Pairs II* og *Opposite*.



**Til athugunar:** Þessi aðgerð er aðeins möguleg ef kveikt er á símanum. Ekki má kveikja á símanum þar sem notkun þráðlausra síma er bönnuð eða þar sem hún kann að valda truflunum eða hættu.

## Nýr leikur hafinn

1. Stutt er á **Valmynd**, skrunað að *Leikir* og stutt á **Velja**.
2. Í *Pairs II* og *Opposite* er valinn kosturinn *Nýr leikur*. Í *Snake II* er valinn kosturinn *1 leikmaður*.

## Nýr leikur með tveimur leikmönnum

Einnig er hægt að spila *Snake II* með öðrum leikmanni um IR-tengi ef sími andstæðingsins er samhæfur og sami leikur er í honum. Áður en leikur tveggja leikmanna hefst þarf að sjá til þess að IR-tengi símanna vísi hvort á annað. Sjá IR-tenging (valmynd 9) á bls. 89.

Báðir leikmenn ættu að velja kostinn *2 leikmenn* til að hefja leikinn.

## Valkostir fyrir leikinn

- Með *Nýr leikur* hefst ný leiklota.
- Með *Styrkleiki* er hægt að stilla styrkleika leiksins sem var valinn. Styrkleikinn er valinn með eða og stutt á **Í lagi**.
- Í *Leiðbeiningar* eru leiðbeiningar um leikinn. Skrunað er eftir textanum með eða .
- *Metið* sýnir flest skoruð stig.
- Með *Halda áfram* er hægt að halda áfram leik í bið.
- Með *Lokastaða* sést lokastaða leiksins um leið og honum lýkur.
- Með *Stillingar* er hægt að gera ljós og hljóð í leik virk eða óvirk.

# Reiknivél (valmynd 7)



Með reiknivélinni í símanum er hægt að leggja saman, draga frá, margfalda, deila og breyta gengi. Nákvæmni reiknivélarinnar er takmörkuð og villur vegna sléttunar gætu orðið, einkum í deilingu á tölum með mörgum tölustöfum.



**Til athugunar:** Þessi aðgerð er aðeins möguleg ef kveikt er á símanum. Ekki má kveikja á símanum þar sem notkun þráðlausra síma er bönnuð eða þar sem hún kann að valda truflunum eða hættu.

## Notkun reiknivélarinnar

1. Stutt er á **Valmynd**, skrunað að *Reiknivél* og stutt á **Velja**.
2. Þegar núll (0) birtist á skjánum er fyrsta talan í útreikningnum færð inn. Ef breyta á reiknimerkinu er stutt á **Valkostir**, skrunað að *Breyta + í -* og stutt á **Velja**.

   Ef bæta á við tugstaf er stutt á # .
3. Ef leggja á saman er stutt á * einu sinni (+ birtist).

   Ef draga á frá er stutt á * tvisvar (- birtist).

   Ef á að margfalda er stutt á * þrisvar (* birtist).

   Ef á að deila er stutt á * fjórum sinnum (/ birtist).

   Annar kostur er að styðja á **Valkostir**, skruna að viðeigandi valkosti og styðja á **Velja**.
4. Næsta tala er færð inn. Þessir liðir eru endurteknir svo oft sem þörf krefur. Stutt er á **Hreinsa** til að þurrka út mistök.
5. Samtala fæst með því að styðja á **Valkostir**. Skrunað er að *Jafnt og* og stutt á **Velja**.
6. Ef hefja á nýjan útreikning er stutt á **Hreinsa** og takkanum haldið niðri.

## Ef umbreyta á gjaldmiðli

1. Gengið er stillt með því að styðja á **Valkostir**, skruna að *Gengið* og styðja á **Velja**.
2. Skrunað er að öðrum hvorum valkostinum sem birtist og stutt á **Velja**. Gengið er fært inn (stutt er á # til að fá kommu) og stutt á **Í lagi**.
3. Breytingin er gerð með því að færa inn upphæðina sem á að breyta og styðja á **Valkostir**, skruna að *Í innlendum* eða *Í erlendum* og styðja á **Velja**.

# Dagbók (valmynd 8)



Með dagbókinni er hægt að fylgjast með áminningum, símtölum sem þarf að hringja, fundum og afmælisdögum. Síminn gefur frá sér hljóðmerki þegar komið er að fundi, afmælisdegi eða tímabært er að hringja.



**Til athugunar:** Þessi aðgerð er aðeins möguleg ef kveikt er á símanum. Ekki má kveikja á símanum þar sem notkun þráðlausra síma er bönnuð eða þar sem hún kann að valda truflunum eða hættu.

## Dagbókaryfirlit

### Dagsyfirlit

Á dagsyfirlitinu sjást dagsetning og teikn fyrir hverja minnismiðagerð sem hefur verið stillt fyrir daginn. Sjá Minnismiða bætt í dagbók á bls. 88.

Stutt er á **Valmynd**, skrunað að *Dagbók* og stutt á **Velja** til að birta dagsyfirlitið.

### Minnismiðayfirlit

Í minnismiðayfirlitinu er hægt að skoða upplýsingarnar á völdum minnismiða.

**Minnismiðayfirlit birt:**

Stutt er á **Valkostir** í dagsyfirlitinu, skrunað að *Skoða dag*. og stutt á **Velja**.

### Vikulisti

Í vikulistanum er hægt að skruna í dagbókinni viku eftir viku.

**Vikulistinn birtur:**

1. Í dagsyfirliti er stutt á **Valkostir**.
2. Skrunað er að *Skoða vikur* og stutt á **Velja**.



**Ábending:** Í dagsyfirlitinu og vikulistanum er hægt að fara fljótt á tiltekna dagsetningu með því að færa inn dagsetninguna með tölustafatökkunum. Ef í dag er til dæmis 9. og talan 3 er færð inn fer síminn á þriðja dag næsta mánaðar.

## Listi yfir valkosti á dagbókaryfirliti

Á listanum yfir valkosti á dagbókaryfirlitinu eru valkostir um að búa til minnismiða og senda minnismiða sem textaboð eða um IR.

Í valkostalistanum fyrir dagsyfirlit og minnismiðayfirlit eru einnig valkostir um að eyða, breyta, endurtaka og færa minnismiða. Fyrir minnismiða af gerðinni *Fundur*, *Hringja* og *Til minnis* er einnig valkostur um að afrita minnismiðann yfir á annan dag og endurtaka áminninguna (hvern dag, hverja viku, aðra hverja viku eða hvert ár).

Með valkostinum *Stillingar* er hægt að stilla dagsetninguna, tímann, dagsetningarsnið, tímasnið og vikusnið fyrir dagbókina. Með valkostinum *Eyða sjálfvirkt* er hægt að stilla símann svo að hann eyði minnismiðum sjálfkrafa eftir tiltekinn tíma. Endurtekningunum (til dæmis minnismiðum um afmæli) verður ekki eytt.

 

## Minnismiða bætt í dagbók

1. Í valmyndinni *Dagbók* er skrunað með  eða  að dagsetningunni sem við á.
2. Stutt er á **Valkostir**, skrunað að *Skrá aths.* og stutt á **Velja**.
3. Skrunað er að einni af eftirfarandi gerðum minnismiða og stutt á **Velja**. Í Nöfn og númer vistuð á bls. 35 er fjallað um hvernig bókstafir og tölustafir eru færðir inn.
   - *Fundur* ( )

   Minnismiðinn er færður inn (eða leitað að nafninu í símaskránni) og stutt á **Í lagi**. Þá er tíminn færður inn og stutt á **Í lagi**.
   - *Hringja* ( )

   Símanúmerið er fært inn (eða leitað að því í símaskránni) og stutt á **Í lagi**. Þá er nafnið sem við á fært inn (eða leitað að því í símaskránni) og stutt á **Í lagi**. Þetta er endurtekið til að stilla tímann.
   - *Afmæli* ( )

   Nafn manneskjunnar er fært inn og stutt á **Í lagi**, þetta er síðan endurtekið með fæðingardag og ár (valfrjálst). Ef fæðingarár er fært inn birtist aldur manneskjunnar á eftir nafni hennar.
   - *Til minnis* ( )

   Áminningin er færð inn og stutt á **Í lagi**.
4. Skrunað er með  eða  að viðeigandi valkosti (undanskilin er *Til minnis*) og stutt á **Velja**.

   Hljóðmerki er gefið til kynna með  þegar minnismiðarnir eru skoðaðir.



**Ábending:** Í dagalistanum, dagsyfirlitinu eða vikulistanum er hægt að fara í skyndi í yfirlit dagsins í dag með því að styðja á .

### Hljóðmerki frá símanum vegna minnismiða

Ljósið blikkar í símanum, hann pípir og birtir minnismiðann (líka þegar síminn er í hamnum *Hljótt*). Ef minnismiði af gerðinni *Hringja* er á skjánum er hægt að hringja í númerið sem birtist með því að styðja á . Ef stöðva á merkið og skoða minnismiðann er stutt á **Skoða**; ef stöðva á merkið án þess að skoða minnismiðann er stutt á **Hætta**.

## IR-tenging (valmynd 9)



Í þessari valmynd er hægt að stilla símann svo að hann taka á móti gögnum um innrautt tengi (IR). Ef nota á IR-tengingu verður tækið sem á að tengjast að vera samhæft IrDA. Hægt er að senda eða taka á móti gögnum, svo sem nafnspjöldum (nöfnum og símanúmerum sem vistuð eru í símaskránni) og minnismiðum dagbókar eða úr samhæfum síma eða gagnatæki (til dæmis tölvu) um IR-tengi símans.



**Til athugunar:** Þessi aðgerð er aðeins möguleg ef kveikt er á símanum. Ekki má kveikja á símanum þar sem notkun þráðlausra síma er bönnuð eða þar sem hún kann að valda truflunum eða hættu.

### Gögn send og móttekin um IR

1. Tryggja þarf að IR-tengi tækjanna sem senda og taka á móti vísi hvort á annað og að engar hindranir séu á milli þeirra. Heppilegt er að fjarlægðin milli tækjanna í innrauðri tengingu sé ekki meira en einn metri.
2. Þegar gögn eru móttekin um IR er IR-tengi símans gert virkt í valmyndinni *IR-tenging* (valmynd 9).
3. Notandi símans sem sent er úr velur viðeigandi IR-aðgerð til að hefja gagnaflutninginn.

Ef gagnaflutningur hefst ekki innan tveggja mínútna eftir að IR-tengið er gert virkt er tengingin rofin og þarf að koma henni á aftur.

**Til athugunar:** Síminn er Class 1 Laser Product.

## Staða IR-tengingar könnuð

Staða IR-tengingar er gefin til kynna með Þ▬▬.

Þegar Þ▬▬ er viðvarandi á skjánum er IR-tengingin virk og síminn undir það búinn að senda gögn og taka á móti þeim um IR-tengið.

Þegar Þ▬▬ sést ekki er engin IR-tenging.

Þegar Þ▬▬ blikkar er verið að reyna að koma á nýrri tengingu eða tenging er rofin.

# Þjónusta (valmynd 10)



Síminn styður tæki sem byggjast á WAP (Wireless Application Protocol). Í valmyndinni *Þjónusta* fæst aðgangur að þjónustu sem viðkomandi net styður, svo sem fréttum, veðurfregnum, flugtíma, orðabókum o.s.frv. Í valmyndinni *Þjónusta* er hægt að vista netföng slíkra þjónustuveitna sem bókmerki og þá er hægt að nota þjónustuveiturnar með valkostinum *Bókamerki*.

Bent er á að efni slíkrar þjónustu er háð efnisveitu þjónustunnar. Við notkun slíkrar þjónustu skal fylgja leiðbeiningum þjónustuveitunnar.

Áður en hægt er að nota þjónustu í símanum þarf að vista nauðsynlegar tengistillingar. Þjónustuveitan sendir ef til vill einhverjar eða allar nauðsynlegar stillingar. Þegar búið er að vista stillingarnar má nota þær eða breyta þeim eins og lýst er hér á eftir.

Í símanum eru nokkrir tengiskilgreiningar þar sem hægt er að vista viðeigandi tengistillingar. Hægt er að nota tengistillingarnar með því að gera viðeigandi skilgreiningar virkar.



**Til athugunar:** Þessi aðgerð er aðeins möguleg ef kveikt er á símanum. Ekki má kveikja á símanum þar sem notkun þráðlausra síma er bönnuð eða þar sem hún kann að valda truflunum eða hættu.

## Tengistillingar vistaðar eða þeim breytt fyrir skilgreinda tengingu

1. Stutt er á **Valmynd**, skrunað að *Þjónusta* og stutt á **Velja**.
2. Skrunað er að *Stillingar* og stutt á **Velja**.
3. Stutt er á **Velja** þegar *Stillingar til að tengjast* birtist.
4. Skrunað er að viðeigandi tengiskilgreiningum og stutt á **Valkostir**.
5. Skrunað að *Breyta* og stutt á **Velja**.



**Ábending:** Ef valin er stillingin *Endurskíra* er hægt að velja annað nafn á tengiskilgreininguna.

6. Ef valið var *Breyta* eru viðeigandi tengistillingar vistaðar eða þeim er breytt.
   - *Veffang* til að vista veffröng heimasíðu.
   - *Tegund tengingar* ef velja á *Áframhaldandi* eða *Bráðabirgða*.
   - *Örugg tenging* ef stilla á tengingaröryggi *Virk* eða *Óvirk*. Þegar tengiöryggi er virkt er reynt að nota örugga línu þegar þjónustan er gerð virk. Ef örugg lína er ekki tiltæk verður engin tenging. Ef samt sem áður á að tengja við óörugga tengingu verður að stilla tengiöryggið á *Óvirk*.

- *Flutningsmáti* til að velja *SMS* eða *Gagnasending*. Þegar *SMS* er valið sem flytjandi eru eftirtaldar stillingar tiltækar: *Númer netþjóns* og *Númer þjónustu*. Þegar flytjandinn *Gagnasending* er valinn eru eftirtaldar stillingar tiltækar: *Innhringi-númer*, *IP-netfang*, *Hvernig er auðkennt*, *Tegund gagnasendingar*, *Hraði gagnasendingar*, *Notandanafn* og *Lykilorð*.

## Veffang heimasíðu vistað

Hægt er að vista veffang heimasíðu fyrir hverja tengiskilgreiningu:

1. Stutt er á **Valmynd**, skrunað að *Þjónusta* og stutt á **Velja**.
2. Skrunað er að *Stillingar* og stutt á **Velja**.
3. Stutt er á **Velja** þegar *Stillingar til að tengjast* birtist.
4. Skrunað er að viðeigandi tengiskilgreiningu og stutt á **Valkostir**, síðan er skrunað að *Breyta* og stutt á **Velja**.
5. Stutt er á **Velja** þegar *Veffang* birtist.
6. Veffang heimasíðunnar er fært inn og stutt á **Í lagi**.

## Notkun þjónustu

Þegar allar nauðsynlegar tengistillingar hafa verið vistaðar má byrja að nota þjónustu. Upplýsingar um nauðsynlegar stillingar fást hjá þjónustuveitu.

### Tengistillingar gerðar virkar

Áður en notkun þjónustu hefst þarf að gera tengiskilgreiningu fyrir þjónustuna virka.

1. Stutt er á **Valmynd**, skrunað að *Þjónusta* og stutt á **Velja**.

2. Skrunað er að *Stillingar* og stutt á **Velja**.
3. Stutt er á **Velja** þegar *Stillingar til að tengjast* birtist.
4. Skrunað er að viðeigandi tengiskilgreiningu og stutt á **Valkostir**. Skrunað er að *Gera virkar* og stutt á **Velja**.

## Byrjað að nota þjónustu

Í þessari handbók eru aðeins grunnleiðbeiningar í notkun þjónustu þar sem tiltækar þjónustuveitur veita mismunandi þjónustu. Nánari upplýsingar um notkun tiltekinnar þjónustu fást hjá þjónustuveitunni og í skjáleiðbeiningum á símanum.

1. Í Tengistillingar gerðar virkar á bls. 92 er fjallað um hvernig tengiskilgreining þjónustunnar er gerð virk.
2. Í biðham er stutt á **Valmynd**, skrunað að *Þjónusta* og stutt á **Velja**.
3. Ef tengjast á heimasíðu þjónustunnar er stutt á **Velja** þegar *Heim* er auðkennt.

   Skjáleiðbeiningum á símanum er fylgt þegar tengt er við heimasíðuna. Ef stutt er á **Valkostir** þegar verið er að skoða þjónustu birtist listi yfir tiltæka valkosti. Ef til dæmis á að draga út númer frá gildandi þjónustu er notaður valkosturinn *Taka númer*.



**Ábending:** Einnig má nota takkann í mismunandi tilgangi eftir því hver þjónustan er. Hann má til dæmis nota til að velja auðkenndan valkost.

### Ef hætta á að skoða

1. Stutt er á **Valkostir**.
2. Skrunað er að *Hætta* og stutt á **Velja**. Síðan er stutt á **Já** þegar spurt er *Hætta á vefnum?*

   Einnig má hætta að fletta með því að styðja á .

## Þjónusta vistuð sem bókmerki

1. Stutt er á **Valmynd**, skrunað að *Þjónusta* og stutt á **Velja**.
2. Skrunað er að *Bókamerki* og stutt á **Velja**.
3. Stutt er á **Valkostir**, síðan er stutt á **Velja** þegar *Nýtt bókamerki* birtist.
4. Veffang viðeigandi þjónustu er fært inn og stutt á **Í lagi**. Heiti viðeigandi þjónustu er síðan fært inn og stutt á **Í lagi**.



**Ábending:** Hægt er að vista þjónustuna sem bókmerki meðan verið er að skoða hana með því að styðja fyrst á **Valkostir** og velja síðan *Bókamerki*. Síðan er stutt á **Velja**: heiti þjónustunnar kann að birtast. Stutt er á **Valkostir** og kosturinn *Geyma bókam.* valinn.

## Notkun á þjónustu sem vistuð er sem bókmerki

1. Stutt er á **Valmynd**, skrunað að *Þjónusta* og stutt á **Velja**.
2. Skrunað er að *Bókamerki* og stutt á **Velja**.
3. Skrunað er að viðeigandi bókmerki og stutt á **Velja** til að tengjast þjónustunni.

Bent er á að aðeins er hægt að tengjast þjónustu sem vistuð er sem bókmerki ef með henni eru notaðar virkar tengistillingar.

## Skyndiminni hreinsað

Upplýsingarnar sem búið er að sækja eru geymdar í skyndiminni símans. Skyndiminnið er biðminni sem geymir gögn tímabundið.



**Til athugunar:** Ef reynt hefur verið að sækja eða búið er að sækja leynileg gögn sem þarfnast aðgangsorðs (til dæmis bankaupplýsingar) þarf að tæma skyndiminnið fyrir hverja notkun til að tryggja gagnaleynd

1. Stutt er á **Valmynd**, skrunað að *Þjónusta* og stutt á **Velja**.
2. Skrunað er að *Tæma skyndim.* og stutt á **Velja**.

## Aðgangskort

Aðgangskort þarf fyrir suma þjónustu. Þegar nauðsynlegt aðgangskort hefur verið sótt á Internetið er hægt að skoða vottorðið og vista það síðan eða eyða því. Ef það er vistað er vottorðinu bætt á listann yfir aðgangskort í valmyndinni *Þjónusta*.

**Listinn yfir aðgangskort skoðaður:**

1. Stutt er á **Valmynd**, skrunað að valmyndinni *Þjónusta* og stutt á **Velja**.
2. Skrunað er að *Stillingar* og stutt á **Velja**.
3. Skrunað er að *Aðgangskort* og **Velja**.



**Til athugunar:** Þegar farið er í örugga WAP-þjónustu (án tengingar) birtist öryggisteiknið efst vinstra megin á skjánum. Þegar öryggisteiknið birtist er gagnaflutningurinn milli símans og gáttar (auðkennd með *IP-netfang* í *Stillingar til að tengjast*) dulritaður og öruggur. En öryggisteiknið gefur ekki til kynna að gagnaflutningurinn milli gáttar og þjóns (staður þar sem nauðsynleg tilföng eru geymd) sé öruggur. Það er undir þjónustuveitunni komið að tryggja gagnaflutninginn milli gáttarinnar og þjónsins.

## SIM-þjónusta (valmynd 11)



Auk aðgerðanna sem eru í símanum getur verið að SIM-kortinu fylgi viðbótarþjónusta sem hægt er að birta í valmynd 11. Valmynd 11 er eingöngu sýnd ef SIM-kortið styður hana. Heiti og efni valmyndarinnar fer alveg eftir því hvaða þjónusta er tiltæk.

Upplýsingar um notkun SIM-þjónustu fást hjá söluaðila SIM-kortsins, til dæmis símafyrirtæki, þjónustuveitu eða öðrum söluaðilum.

Hægt er að stilla símann svo að hann sýni staðfestingarboð sem send eru milli símans og netsins þegar verið er að nota SIM-þjónustu með því að velja *Valin* í valmyndinni 4-4-5 (*Staðfesta SIM-aðgerð*).

**Til athugunar:** Í aðgangi að þessari þjónustu gæti falist að senda textaboð (SMS) eða hringja símtal sem notandi greiðir fyrir.

# 7. Gagna- og símbréfasendingar

Með símanum er hægt að flytja gögn í önnur tæki ef hann er tengdur við tölvu með IR-tengingu eða raðkapli.

Ef senda á og taka á móti tölvupósti og símbréfum, tengjast tölvum og fara á internetið, einnig þarf að setja upp viðeigandi hugbúnað fyrir gagna- og símbréfasendingar á tölvunni. Hægt er að nota Nokia 6210 með ýmsum tiltækum forritum fyrir gagna- og símbréfasendingar.

Ef nota á símann sem mótald þarf fyrst að setja hann upp sem mótald. Ítarlegar upplýsingar um uppsetningu og nauðsynlegar kerfisskrár eru á geisladisknum sem fylgir með símanum eða á vefsetri Nokia (www.club.nokia.com eða www.forum.nokia.com).

## Síminn tengdur við tölvu

### Uppsetning samskiptaforrita og mótaldsrekla

1. Ganga þarf úr skugga um að forrit fyrir gagnasamskipti sé rétt sett upp á tölvunni. Upplýsingar um hvernig á að setja upp forrit eru í fylgigögnum með forritinu.
2. Nauðsynlegir reklar settir upp á tölvunni. Til hagræðis skal nota forritin sem eru á geisladisknum. Leiðbeiningar eru í mótaldsuppsetningarforritinu á geisladisknum eða á vefsetri Nokia (www.club.nokia.com eða www.forum.nokia.com).

   Úrræðaleit er að finna í skránni Lesist.txt sem er á geisladisknum eða á vefsetri Nokia (www.club.nokia.com eða www.forum.nokia.com).

### HSCSD (High Speed Circuit Switched Data)

Í Nokia 6210 er innbyggður háhraðaeiginleiki fyrir GSM-gagnasamskipti sem gerir kleift að nota háhraðagagnaþjónustu fyrir GSM. Hægt er að nota háhraðamöguleikann þegar síminn er tengdur við tölvu um IR-tengingu eða raðkapal og þegar mótaldsreklar sem styðja háhraðagögn eru uppsettir á tölvunni og valdir sem virkt mótald. Háhraðagagnaþjónustu og áskrift að þjónustu fæst hjá símafyrirtæki eða þjónustuveitu.

Með GSM-háhraðagagnaþjónustunni er hægt að nota Internetið og aðra þjónustu hraðar en venjulega. Þegar tölvupóstur er sendur eða tekið á móti honum er hægt að tvöfalda 14.4 kbás gagnaflutningshraðann í 28.8 kbás. Með tengingu við Internetið er hægt að sækja gögn á allt að 43.2 kbás hraða ef búnaður símafyrirtækis og Internetþjónustu styðja slíkt.

**Til athugunar:** Ef gögn eru send í HSCSD-ham tæmist rafhlaðan fyrr en í venjulegum símtölum eða gagnasendingum því að síminn sendir gögnin hraðar. Tengja skal símann við hleðslutæki ef notkun er stöðug.

## Notkun samskiptaforrita

Framkvæma skal eitt af eftirtöldum atriðum:

Ef notað er IR:

- Er IR-tengingin gerð virk með því að velja valmynd 9.
- Ganga þarf úr skugga um að innrauða tengið á símanum vísi að innrauða tengi tölvunnar.

Ef notaður er kapall:

- Er kapallinn DLR-3P tengdur við raðtengið aftan á tölvunni.
- Kapallinn DLR-3P er tengdur við símann.

Hefja skal notkun á gagnasamskiptaforritinu í tölvunni. Upplýsingar um notkun forritsins eru í fylgigögnunum með forritinu.



**Til athugunar:** Ekki er ráðlegt að hringja eða svara símtölum meðan tölvutenging er virk þar sem það gæti rofið aðgerðina.

Síminn er lagður á hvolf á sléttan flöt til að auka afköst við gagnasendingar. Ekki má halda á símanum og hreyfa hann þegar verið er að senda gögn.

# 8. Skýringar



## Sérmerkið fjarlægt og skipt um það

Hægt er að skipta um silfurplötu framan á símanum og setja nýja með sérprentuðu nafni eiganda símans. Sérmerki eru eingöngu fáanleg hjá Nokia-klúbbnum á vefnum (www.club.Nokia.com). Framboð kann að vera breytilegt eftir löndum.



**Til athugunar:** Merkin skal geyma þar sem börn ná ekki til.

### Merkið fjarlægt

1. Stutt er með nöglinni milli tengingarinnar neðst á símanum og merkisins (1.).
2. Merkinu er lyft (2.) með nöglinni og því rennt af símanum (3.).




### Merkið sett á aftur

1. Merkinu er komið fyrir þannig að brúnir þess nemi við samsvarandi svæði á símanum (1.)

2. Merkinu er rennt á sinn stað (2.).




## Aðgangsnúmer

Hægt er að nota aðgangsnúmerin sem lýst er í þessum kafla til að hindra óheimila notkun símans og SIM-korts.

Aðgangsnúmerin (að undanskildum PUK- og PUK2-númerunum) er hægt að breyta í valmynd 4-6-6. Sjá kaflann hér á eftir.

### Öryggisnúmer (5 tölustafir)

Hægt er að nota öryggisnúmerið til að hindra óheimila notkun símans. Stilling framleiðanda á öryggisnúmerinu er 12345. Ef hindra á að síminn sé notaður í heimildarleysi er hægt að breyta númerinu í valmyndinni *Stillingar* sjá Öryggisstig (valmynd 4-6-5) á bls. 81 og Breyta aðgangslyklum (valmynd 4-6-6) á bls. 81. Nýja númerinu er haldið leyndu og á öruggum stað annars staðar en með símanum.

 

## PIN-númer (4 til 8 tölustafir)

PIN-númerið (Personal Identification Number) hindrar að SIM-kortið sé notað í heimildarleysi. PIN-númerið fylgir yfirleitt SIM-kortinu. Þegar krafa um PIN-númer er gerð virk (valmynd 4-6-1), er beðið um númerið í hvert sinn sem kveikt er á símanum.

## PIN2-númer (4 til 8 tölustafir)

PIN2-númerið sem fylgir sumum SIM-kortum er nauðsynlegt fyrir sumar aðgerðir, til dæmis að hlaða teljara. Þessar aðgerðir eru einungis tiltækar ef SIM-kortið styður þær.

## PUK-númer (8 tölustafir)

Þörf er á PUK-númeri (Personal Unblocking Key) til að breyta lokuðu PIN-númeri. PUK-númerið fylgir yfirleitt SIM-kortinu. Ef svo er ekki fæst númerið hjá þjónustuveitunni. Ef númerið týnist skal hafa samband við þjónustuveituna.

## PUK2-númer (8 tölustafir)

Þörf er á PUK2-númerinu sem fylgir sumum SIM-kortum til að breyta lokuðu PIN2-númeri. Ef númerið týnist skal hafa samband við þjónustuveituna.

## Lykilorð vegna útilokunar

Þörf er á aðgangsorðinu þegar aðgerðin Útilokun símtala er notuð. Þjónustuveita lætur í té þetta lykilorð.

# Upplýsingar um rafhlöðu

## Rafhlaða hlaðin og tæmd

- Síminn gengur fyrir rafhlöðu sem hægt er að endurhlaða.
- Hafa ber hugfast að rafhlaða nær ekki fullum afköstum fyrr en hún hefur verið hlaðin og afhlaðin tvisvar til þrisvar sinnum.
- Hægt er að hlaða og afhlaða rafhlöðu nokkrum hundruð sinnum en þar kemur að hún gengur úr sér. Þegar vinnslutími (taltími og biðtími) er orðinn áberandi stuttur er tímabært að kaupa nýja rafhlöðu.
- Aðeins má nota rafhlöður sem samþykktar eru af framleiðanda símans og aðeins má endurhlaða rafhlöðu með hleðslutækjum sem framleiðandinn hefur samþykkt.
- Hleðslutæki skal taka úr sambandi þegar það er ekki í notkun. Óráðlegt er að rafhlaða sé tengd hleðslutæki lengur en vikutíma þar sem ofhleðsla getur stytt endingartíma hennar. Fullhlaðin rafhlaða afhleðst sjálfkrafa með tímanum ef hún er ekki í notkun.
- Mestur endingartími næst ef NiMH-rafhlaðan er afhlaðin af og til með því að haft er kveikt á símanum þar til slokknar á honum sjálfkrafa. Ekki má reyna að freista þess að afhlaða rafhlöðuna með neinum öðrum hætti.
- Sveiflur í hitastigi hafa áhrif á hleðslugetu rafhlöðunnar: best er að hún aðlagist umhverfishita áður en hún er hlaðin.
- Þegar rafhlaðan er að tæmast og aðeins er hægt að tala í nokkrar mínútur í viðbót heyrist viðvörunarmerki og boðin *Rafhlaða næstum tóm* birtast andartak. Þegar ekki er hægt að tala lengur birtist *Rafhlaðan er tóm*, viðvörunartónn heyrist og það slokknar á símanum.

### Notkun rafhlöðunnar

- Aðeins má nota rafhlöðuna til þess sem hún er ætluð.
- Aldrei má nota skemmt eða úr sér gengið hleðslutæki eða rafhlöðu.
- Ekki má valda skammhlaupi í rafhlöðunni. Skammhlaup getur orðið fyrir slysni þegar málmhlutur (mynt, bréfaklemma eða penni) veldur beinni tengingu milli + og - skautanna á rafhlöðunni (málmrandanna aftan á rafhlöðunni), til dæmis þegar vararafhlaða er höfð í vasa eða tösku. Skammhlaup milli skautanna getur valdið skemmdum á rafhlöðunni eða hlutnum sem veldur tengingunni.
- Ef rafhlaðan er skilin eftir í miklum hitum eða kuldum, til dæmis í lokuðum bíl að sumar- eða vetrarlagi,dregur það úr afkastagetu hennar og endingu. Æskilegast er að rafhlaðan sé alltaf höfð í hita á bilinu frá 15 °C að 25 °C (frá 59 F að 77 F). Sími með of heitri eða of kaldri rafhlöðu getur orðið óvirkur um tíma, þó svo að rafhlaðan sé fullhlaðin. Einkum hefur frost áhrif á rafhlöðuna.
- Ekki má fleygja rafhlöðum í eld!



Rafhlöður ber að endurvinna nema þeim sé fargað með réttum hætti.

Ekki má fleygja þeim sem almennu sorpi!

# Umhirða og viðhald

Þessi sími er listilega hönnuð gæðavara sem rétt er að fara vel með. Eftirfarandi tillögur stuðla að því að farið sé að skilmálum ábyrgðarinnar og að varan endist og nýtist árum saman. Þegar verið er að nota símann, rafhlöðuna, hleðslutækið EÐA hvaða fylgihlut sem er:

- Geyma skal símann, alla hluta hans og fylgihluti þar sem lítil börn ná ekki til.
- Halda skal símanum þurrum. Þétting, raki og vökvar innihalda steinefni sem tæra rafrásirnar.
- Ekki má nota símann á rykugum og skítugum stöðum né geyma hann þar. Færanlegu hlutirnir í honum geta skemmst.
- Ekki má geyma símann á heitum stað. Hátt hitastig getur dregið úr endingu rafeindatækja, skemmt rafhlöður og undið eða brætt tiltekin plastefni.
- Ekki má geyma símann á köldum stað. Þegar síminn hitnar (upp að eðlilegu hitiastigi) getur raki myndast innan á símanum og hann getur skemmt rafrásaspjöld.
- Ekki má freista þess að opna símann. Ef viðvaningar eiga við tækið getur það skemmst.
- Símanum má ekki henda, ekki má banka í hann eða hrista hann. Óvarleg meðferð getur orðið til þess að innri rafrásaspjöld brotni.
- Ekki má nota sterk efni, leysiefni til hreingerninga eða sterk hreinsiefni til þess að þrífa hann. Strjúka skal af símanum með mjúkum klút sem hefur verið vættur með mildri blöndu vatns og sápu.
- Símann má ekki mála. Málningin getur fest hreyfanlega hluti tækisins og komið í veg fyrir að þeir vinni rétt.
- Ef síminn, rafhlaðan, hleðstutækið eða annar fylgihlutur vinnur ekki rétt skal leita til næstu þar til bærrar þjónustu. Starfsfólk hennar aðstoðar notandann og sér um viðgerð ef þörf krefur.

# Mikilvægar öryggisupplýsingar



## Umferðaröryggi

Ekki má nota handsíma við stjórn ökutækis. Ef nota þarf handsíma er ökutækinu lagt áður en símtal hefst. Alltaf skal festa símann í þar til gert hald, ekki má leggja símann í farþegasæti eða þar sem hann getur kastast til við árekstur eða skyndilega stöðvun.

Ekki er leyfilegt að nota viðvörunartæki til að stjórna ljósabúnaði eða flautu ökutækis í umferðinni.

Hafa ber í huga að umferðaröryggi gengur fyrir!

## Vinnuumhverfi

Hafa ber í huga að fara að öllum sérstökum reglugerðum sem gilda á hverju svæði og að slökkva alltaf á símanum þar sem notkun hans er bönnuð, eða þar sem hann kann að valda truflun eða hættu.

Þegar síminn eða annar fylgihlutur er tengdur öðru tæki skal lesa notendahandbók með því vandlega, einkum upplýsingar um öryggi. Ekki má tengja saman ósamhæf tæki.

Um símann gildir það sama og um önnur tæki sem senda frá sér útvarpsbylgjur, ef nýta á tækið sem best og tryggja öryggi notenda er mælt með því að tækið sé aðeins notað í hefðbundinni notkunarstöðu (haldið að eyranu).

Ekki má beina innrauðum geisla í augu eða láta hann trufla önnur innrauð tæki.

## Rafeindatæki

Flest nýleg rafeindatæki eru varin fyrir útvarpsmerkjum (RF). Þó kunna sum rafeindatæki að vera óvarin fyrir útvarpsmerkjum frá þráðlausa símanum.

## Gangráðar

Framleiðendur gangráða mæla með því að 20 sm (6 tommu) lágmarksbil sé haft á milli þráðlauss handsíma og gangráðs til þess að komist sé hjá hugsanlegri truflun í gangráðinum. Þessi tilmæli eru í samræmi við sjálfstæða rannsókn og tilmæli frá Wireless Technology Research.

Notendur gangráðs:

- skyldu alltaf halda símanum í meira en 20 sm (6 tommu) fjarlægð frá gangráðinum þegar kveikt er á símanum;
- skyldu ekki ganga með símann í brjóstvasa;
- skyldu nota eyrað sem er fjær gangráðinum til að draga úr líkum á truflunum.
- Ef grunur leikur á að truflun eigi sér stað skal slökkva á símanum tafarlaust.

## Heyrnartæki

Tilteknir stafrænir þráðlausir símar geta truflað tiltekin heyrnartæki. Komi til slíkrar truflunar er ráðlegt að leita til þjónustuveitunnar.

## Önnur lækningatæki

Notkun búnaðar sem sendir frá sér útvarpsbylgjur, þar með taldir þráðlausir símar, kunna að trufla virkni lækningatækja sem ekki eru nægilega vel varin. Hafa skal samband við lækni eða framleiðanda lækningatækisins til þess að komast að því hvort það sé nægilega vel varið fyrir utanaðkomandi útvarpsbylgjum eða til að afla nánari upplýsinga.

Slökkva skal á símanum í námunda við heilsugæslustöðvar ef auglýstar reglugerðir þess efnis kveða á um að það sé gert. Sjúkrastofnanir eða heilsugæslustöðvar kunna að nota búnað sem er ef til vill næmur fyrir utanaðkomandi útvarpsbylgjum.

## Ökutæki

Útvarpsbylgjur kunna að hafa áhrif á rafeindakerfi í vélknúnum ökutækjum, séu þau ekki rétt upp sett eða ekki nægilega varin (t.d. getur verið um að ræða rafeindastýrða eldsneytisgjöf, rafeindastýrð hemlakerfi (með læsivörn) rafeindastýrð hraðakerfi, loftpúðakerfi).

Hafa skal samráð við framleiðanda eða umboðsmann hans varðandi ökutækið. Einnig er rétt að leita upplýsinga hjá framleiðanda um hugsanlegan aukabúnað með ökutækinu.

### Skilti

Slökkva skal á símanum ef skilti segja til um það.

## Sprengifimt andrúmsloft

Slökkva skal á símanum á svæðum þar sem hætta er á sprengingum og fara að öllum tilmælum sem sjást á skiltum og leiðbeiningum. Neistaflug á slíkum svæðum geta valdið sprengingu eða eldi og haft í för með sér slys og jafnvel dauðsföll.

Notendum er ráðlagt að slökkva á símanum við eldsneytisdælur (á bensínstöðvum). Notendur eru minntir á að virða takmarkanir á notkun útvarpsbúnaðar í eldsneytisgeymslum (svæðum þar sem geymsla og dreifing eldsneytis fer fram), efnaverksmiðjum og þar sem verið er að sprengja.

Svæði þar sem sprengihætta er mikil eru oftast auðkennd en þó ekki alltaf. Sem dæmi má nefna báta undir þiljum; aðstöðu þar sem sterk efni eru geymd eða búin til flutnings; ökutæki sem nýta fljótandi svartolíugas (própan eða bútan); svæði þar sem í lofti eru efni eða agnir, til dæmis korn, ryk eða málmduft; og öll þau svæði þar sem yfirleitt er mælst til þess að menn slökkvi á bílvélinni.

## Ökutæki

Aðeins á að fela sérhæfðu starfsfólki að gera við síma eða setja upp síma í ökutæki. Gölluð uppsetning eða viðgerð kann að valda hættu og ógilda hvers kyns ábyrgð sem kann að eiga við tækið.

Ganga skal reglulega úr skugga um að allur þráðlaus símabúnaður í ökutækinu sé rétt uppsettur og vinni rétt.

Ekki má geyma eða flytja eldfima vökva, lofttegundir eða sprengifim efni í sama rými og símann, hluta úr honum eða fylgihluti með honum.

Ef ökutæki er búið loftpúða skal hafa hugfast að loftpúðinn blæs út af miklum krafti. Ekki má setja hluti, þar með talinn uppsettan eða færanlegan þráðlausan búnað, á svæðið yfir loftpúðanum eða á útþenslusviði loftpúðans. Ef þráðlaus búnaður í bíl er illa settur upp og loftpúðinn þenst út getur slíkt orsakað alvarleg meiðsl.

Slökkva skal á símanum áður en gengið er um borð í flugvél. Notkun þráðlausra síma í flugvél kann að skapa hættu við stjórn flugvélarinnar, rjúfa þráðlaust símasamband og vera brot á lögum.

Ef ekki er farið að þessum leiðbeiningum kann það að leiða til þess að viðkomandi verði synjað um þjónustu eða henni hætt, hann verði sóttur til saka eða hvort tveggja verði gert.

## Neyðarhringingar



**MIKILVÆGT!** Líkt og aðrir þráðlausir símar nýtir þessi sími útvarpsmerki, þráðlaus kerfi og kapalkerfi, enn fremur notendaforritaðar aðgerðir sem ekki geta tryggt tengingu við hvaða skilyrði sem er. Því skyldi notandi aldrei treysta eingöngu á þráðlausan síma ef um er að ræða bráðnauðsynleg fjarskipti (t.d. í bráðatilvikum).

Hafa ber hugfast að til þess að hægt sé að hringja úr símanum eða í hann þarf að vera kveikt á honum á þjónustusvæði þar sem útsent merki er nægilega sterkt. Neyðarhringingar eru ef til vill ekki mögulegar í öllum þráðlausum símkerfum eða þegar tiltekin símkerfisþjónusta og/eða eiginleikar símans eru í notkun. Hafa skal samráð við þjónustuveitu á staðnum.

 

**Neyðarhringing:**

1. Ef slökkt er á símanum skal kveikja á honum.

   Í tilteknum símkerfum kann að vera farið fram á að gilt SIM-kort sé rétt sett í símann.

2. Stutt er á eins oft og þörf krefur (til dæmis til að slíta símtali eða hætta í valmynd o.s.frv.) til að hreinsa skjáinn.

3. Valið er það neyðarnúmer sem gildir á viðkomandi stað (t.d. 112 eða annað opinbert neyðarnúmer). Neyðarnúmer eru breytileg eftir stöðum.

4. Stutt er á takkann .

Ef sumir eiginleikar eru í notkun (Takkalás, Fast númeraval o.s.frv.) þarf ef til vill að gera þá óvirka áður en neyðarhringing er möguleg. Fletta skal upp í þessu skjali og hafa samráð við þjónustuveitu á staðnum.

Við neyðarhringingu ber að hafa hugfast að gefa þarf upp allar nauðsynlegar upplýsingar eins nákvæmlega og kostur er. Hafa ber í huga að þráðlausi síminn er ef til vill eina fjarskiptatækið á vettvangi slyss – ekki má leggja á fyrr en að fengnu leyfi viðmælandans.